Hr. Precent. H.

# FORNÍSLENZK
# MÁLMYNDALÝSING

EPTIR

Dr. LUDV. F. A. WIMMER,
HÁSKÓLAKENNARA.

ÞÝTT HEFIR
VALTÝR GUÐMUNDSSON.




REYKJAVÍK.
Á FORLAG KRISTJÁNS Ó. ÞORGRÍMSSONAR.
1885.

PRENTARI: SIGM. GUÐMUNDSSON.

4

# Fornislenzk

# málmyndalýsing

eptir

**Dr. Ludv. F. A. Wimmer,**

háskólakennara.

Þýtt hefir

**Valtýr Guðmundsson.**




Reykjavík.

Á forlag *Kristjáns Ó. Þorgrímssonar.*

1885.

# Formáli.

Þess hefir opt verið farið á leit við mig, að ég skyldi gefa út hina norrœnu málmyndalýsing mína af nýju, lagaða handa Íslendingum, en önnur störf hafa til þessa gert mér ómögulegt að verða við þessum áskorunum. Seint á næstliðnu ári skoraði einn af lærisveinum mínum fastlega á mig að gera þetta; það var Íslendingrinn *Valtýr Guðmundsson*, sem hefir lagt fyrir sig að stunda norðrlandamál að aðalnámi hér við háskólann; og einmitt um sama leyti leiddu fleiri mér það fyrir sjónir, að lengi hefði verið þörf á slíkri bók á íslenzku. Ég áleit því að ég gæti ekki lengr skorazt undan því að verða við þessum tilmælum. Eptir að við höfðum nokkrum sinnum rœtt þetta mál fram og aptr, þýddi hr. Valtýr bókina, eptir því sem ég lagði fyrir. Hefir hann, samkvæmt fyrirmælum mínum, lagt hina síðustu dönsku útgáfu („Oldnordisk formlære", Kbh. 1882) til grundvallar, og svo bœtt alstaðar athugasemdum við viðvíkjandi nýja málinu, og hefir hann þar að mestu leyti stuðzt við hina stóru sœnsku útgáfu („Fornnordisk formlära", Lund 1874). Seinna hefi ég, fyrst einn og síðan ásamt hr. Valtý, lesið handritið yfir, og gert þær breytingar, er ég áleit nauðsynlegar. Því miðr hefi ég ekki haft tíma til að athuga ýms smáatriði viðvíkjandi ný-íslenzku eins nákvæmlega og ég hefði óskað, og sökum fjarlægðar minnar er mér, sem eðlilegt er, fyrirmunað að lesa prófarkir af bókinni og leggja þannig síðustu hönd á verkið. Eigi að síðr hefi ég trygging

fyrir því, að þetta muni alt verða gert eins viðunanlega og ég get óskað mér, og þá trygging hefi ég í aðstoð þeirri, sem mínir lærðu vinir í Reykjavík, skólastjóri dr. *Jón Þorkelsson* og skólakennari dr. *Björn Magnússon Ólsen*, undir eins hétu mér, þegar það kom til tals að gera alvöru úr því að snúa bókinni á íslenzku. Tjái jeg þeim báðum mínar innilegustu þakkir fyrir þá miklu góðvild, sem þeir þannig hafa sýnt mér og starfa mínum.

Eins og eðlilegt er hefir mér verið mikil ánœgja að því, að bókin hefir í sínum danska, þýzka og sœnska búningi stuðlað til þess að útbreiða þekking á fornmáli Norðrlanda hjá mjög mörgum. Það mundi þó fá mér mestrar gleði og ég mundi telja mér það hin beztu laun fyrir starfa minn, ef bókin gæti einnig nú í sínum íslenzka búningi orðið Íslendingum sjálfum nokkuð til léttis til þess að fá fullkomnari þekking á móðurmáli sínu og hinum sögulega gangi þess. Þeim, sem vilja fá enn nákvæmari og vísindalegri framsetning á þessu, verð ég að vísa á hina sœnsku útgáfu af bókinni.

Kaupmannahöfn í maímán. 1885.

**Ludv. F. A. Wimmer.**

# I. Hljóðfrœði.

---

## Um bókstafina og framburð þeirra.

1. gr. Bókstafir íslenzkrar tungu eru 35, og eru þeir þessir: **a, á, b, d, ð, e, é (è), f, g, h, i, í, j, k, l, m, n, o, ó, p, r, s, t, u, ú, v, x, y, ý, z, þ, æ, œ, ǫ, ɵ.**

Athgr. Í flestum útgáfum er stafrinn ǫ hafðr til að tákna bæði ǫ og ɵ.

### Hljóðstafir.

2. gr. Hljóðstafirnir **a, e, i, o, u, y** og enn fremr **ǫ** og **ɵ** vóru upprunalega stuttir; langir vóru aptr **á, é, í, ó, ú, ý** og enn fremr **æ, œ** og tvíhljóðarnir **ei, ey, au.**

Samkvæmt **framburði fornmanna**, er ákveðinn verðr með því að bera saman framburð hinna nýrri norðrlandamála við hina elztu ritgjörð í Snorra-Eddu um stafrofið og hin elztu íslenzku handrit, hefir íslenzk tunga á sínu elzta stigi haft hljóðstafakerfi það, er hjer skal sýnt, og er því skipað í hið alkunna töfluform, er kent er við Chladni. (Efri stafirnir í röð hverri tákna hin dönsku hljóð, en neðri stafirnir hina íslenzku stafi):

| stuttir stafir | | | langir stafir | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | A<br>**a** | | | A<br>**á** | |
| Æ<br>**e** | Ö<br>**ɵ** | Å<br>**ǫ** | Æ<br>**æ** | Ö<br>- | Å<br>**ó** |
| E<br>**e** | Ø<br>**ø** | O<br>**o** | E<br>**é** | Ø<br>**œ** | O<br>**ó** |
| I<br>**i** | Y<br>**y** | U<br>**u** | I<br>**í** | Y<br>**ý** | U<br>**ú** |
| | | tvíhljóðar: | **ei** | **ey** | **au** |

Hr. docent K. Verner
[illegible]
frá forf.

# FORNÍSLENZK
# MÁLMYNDALÝSING

EPTIR


Dr. LUDV. F. A. WIMMER,

HÁSKÓLAKENNARA.


ÞÝTT HEFIR

VALTÝR GUÐMUNDSSON.




REYKJAVÍK.

Á FORLAG KRISTJÁNS Ó. ÞORGRÍMSSONAR.

1885.

PRENTARI: SIGM. GUÐMUNDSSON.

**æ** og **œ** hafa snemma fengið hið sama hljóð á Íslandi, þannig að *œ* breyttist í *æ;* það eru að eins hin allra elztu handrit, sem greina þessa stafi.

Sömuleiðis hafa **ei** og **ey**, **i** og **y**, **í** og **ý** og **ö** og **ø** runnið saman í framburðinum á Íslandi.

### Samhljóðendr.

4. gr. Samhljóðendr íslenzkrar tungu eru þessir:

| | dumbstafir | andendr | | blístrstafir | nefhljóð | l- og r-hljóð | hálfhljóðar |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| gómstafir .. | k g | - g | h | | n | | j |
| tannstafir . | t d | þ ð | | s, z | n | l, r | |
| varastafir.. | p b | f f | | | m | | v |

Hér við bœtist hinn samsetti stafr **x** = **ks** og **gs**.

5. gr. Hinn núverandi framburðr samhljóðanda hefir, gagnstœtt því sem átti sér stað með hljóðstafina, í öllu verulegu haldið sér, eins og hann var í fornmálinu. Um hina einstöku stafi skal þessa getið:

1) Á undan *e (é), ei, ey, i, í, y, ý, æ, œ* og *ø* (en ekki *ö)* eru **k** og **g** borin fram sem *kj* og *gj: kenna, gøra* eða *gera.* Enn yngri er sá framburðr, að bera **gj** og **gi** á eptir hljóðstaf fram sem *j (jj)* og *ji (jji): vígja, bogi, degi,* frb. *víja, bojji, deiji.*

**g** er hart í framburði í upphafi orða og eptir samhljóðanda, en lint eptir hljóðstaf: *góðr, sorg, ungr; dagr.* Nú er *g* þó hart í framburði eptir hljóðstaf, er *n, l* eða *ð* fer á eptir: *logn, sigla, sagði.* — **gg** er ávalt hart: *egg.*

2) **þ** stendr að eins í framhljóði og **ð** að eins í aptrhljóði og verðr eigi tvöfaldað. Í núverandi máli er *d* haft í upphafi orða, tvöföldun og eptir *l, m* og *n;* aptr stendr *ð* eptir hljóðstafi og eptir *f, g* og *r.* Fyr á tímum var þó *ð* opt einnig brúkað, þótt öðruvísi væri ástatt, þar sem haft er *d* og *t* í hinu yngra máli (sbr. 84. gr.).

3) **p** er borið fram eins og *f* á undan *t: skapt, eptir.*

**f** er í upphafi orða og í stafsamfellunum *fk, ft, fs* og (í samsetningum) *ff* eptir hljóðstaf borið fram sem *f* í dönsku: *faðir, rífka, þýft, þýfska, haft, affall.* Í miðju orða er það borið fram sem *b* á undan *n, l* og *ð: nafn, tafl, lifði* frb. *nabn, tabl, libði.* Annars er það borið fram eins og *v: líf, lifa, hafa, höfuð* frb. *lív, liva, hava, hövuð.*

4) **s** og **z** eru bæði borin fram sem *s.*

5) **v** var í fornmálinu hálfhljóðr, en nú er það *vara-andandi,* og hefir það í vissum samböndum snemma breytzt á þá leið. Í fornum handritum er opt ritað *f* í stað *v (æfi, snjófar= ævi, snjóvar).*

6) Þess ber enn fremr að geta að **ll** og **rl** er borið fram sem *ddl (falla, jarl).* Sömuleiðis er *rn* og *nn,* er tvíhljóðr eða hljóðstafr með lengdarmerki fer á undan, borið fram sem *ddn (barn steinn).* Þó heldr *nn* sínum upprunalega framburði í eignarfornöfnunum *mínn, þínn, sínn,* og í þeim orðum styttist *í* snemma í *i;* enn fremr heldr og *nn* sínum upprunalega framburði sem hluti af greininum: *ánni.*

7) Þegar t v ö f a l d r s a m h l j ó ð a n d i fer á undan þriðja samhljóðanda, verðr framburðrinn hinn sami og hann væri einfaldr *(manns,* ef. af *maðr* hefir sama hljóð í framburði sem *mans,* ef. af *man* (þræll); *felldr* frb. sem *feldr* — ekki *feddldr).* Þó heldr tvöfaldr samhljóðandi framburði sínum á undan *r* og hálfhljóðunum *j, v (allr* frb. *addlur).* Fyrir því er vanalega ritaðr einfaldr samhljóðandi á undan *t* sem hvorugkynsendingu og á undan þátíðarendingu hinna veiku sagna *(alt* f. *allt,* hvk. af *allr; felda, feldr* f. *fellda, felldr,* þátíð og hlutto. fort. af *fella).*

6. g r. *Lengd hljóðstafa.* Nú getr sérhver hljóðstafr verið bæði stuttr og langr, en slíkt er gagnstœtt hinum forna framburði. L a n g i r eru hljóðstafirnir í áherzlusamstöfum, er enda á hljóðstaf, einn einfaldan samhljóðanda eða fleiri einfalda (ekki tvöfaldaða) samhljóðendr, sé hinn næstfyrsti þeirra *r (kné, ek, höf-uð, vil, akr, akrar);* ávalt annars (á undan tvöföldum samhljóðanda og samfellum samhljóðanda eru hljóðstafirnir s t u t t i r

*(egg, höfði, vilja, vildi).* Þegar talað er um langar og stuttar samstöfur í þessari bók hér á eptir, verðr að skilja þetta á annan veg. Hér eru þær samstöfur kallaðar **langar**, er hafa einhvern af hljóðstöfum þeim, er upprunalega voru langir (2. gr. upph.), tvíhljóð (*ei, ey, au*) eða tvo samhljóðendr eptir hljóðstafinn; **stuttar** kallast aptr þær samstöfur, er hafa hljóðstaf, er upprunalega hefir verið stuttr, og einfaldan samhljóðanda eptir hljóðstafinn.

7. gr. **Áherzla samstafna.** Aðaláherzlan liggr ætíð á **fyrstu** samstöfu. Í samsettum orðum liggr aðaláherzlan á fyrstu samstöfu en aukaáherzlan á fyrstu samstöfu seinni hlutans.

8. gr. **Í skiptingu samstafna** teljast allir þeir samhljóðendr, er fara eptir hljóðstaf, til hinnar undanfarandi samstöfu *(höfð-ing-i, svar-að-i)* Samsettum orðum er eins og eðlilegt er skipt eptir frumhlutum samsetningarinnar.

---

## Hljóðbreytingar.

### Hljóðstafir.

9. gr. **Hljóðskipti** kallast hljóðbreyting sú, er einkum kemr fram í hinni sterku beygingu sagnanna (sbr. 75. gr.), t. d.: *fara, fór; binda, batt, bundinn; bíta, beit, bitinn; bera, bar, bárum, borinn.*

10. gr. **Hljóðvarp** er mjög títt í íslenzku, og hefir mikla þýðing fyrir málið. Svo kallast áhrif þau, sem hljóðstafirnir *i* og *u* eða hálfhljóðarnir *j* og *v* hafa á **undanfarandi** hljóðstaf, þannig að sá hljóðstafr nálgast *i (j)* og *u (v)* að hljóði. Í íslenzku er hljóðvarpið tvenns konar, eptir því, hver sá stafr er, sem veldr því, nefnilega *u*-**hljóðvarpið**, sem *u* og *v* veldr, og *i*-**hljóðvarpið**, sem *i* og *j* veldr. *u*-hljóðvarpið er einkennilegt fyrir íslenzku og önnur norðrlandamál, en *i*-hljóðvarpið kemr einnig fyrir í öðrum málum í málaflokki þeim, er íslenzka telst til (þýzku, ensku).

11. gr. a) **u**-hljóðvarp er það, er *u* eða *v*, sem annaðhvort enn finnst í endingunni eða hefir átt þar heima á eldra stigi málsins, breytir **a** í rótarsamstöfunni í **ö**, t. d. *dagr*, þgf. flt. *dögum; félagi*, þgf. flt. *félögum; gata*, nf. flt. *götur; söðull; taka, tökum*. Stundum kemr stafr sá, er hljóðvarpinu veldr, að eins fram í einstökum myndum orðsins, og eigi allsjaldan er hann úr feldr, en áhrif þau, er hann eitt sinn hafði á orðið, haldast samt, t. d. *köttr*, þf. flt. *köttu; ör*, ef. *örvar* (sbr. e. *arrow); söngr*, nf. flt. *söngvar; sök, skömm* (f. **söku, *skömmu); land*, nf. flt. *lönd* (f. **löndu)*.

b) Sé **a** það, sem breytist, ekki í rótarsamstöfu, heldr í beygingar- eða afleiðsluendingu, þá breytist það með *u*-hljóðvarpi (ekki í *ö*, heldr) í **u**, t. d. *herað*, nf. flt. *heruð* (f. **heruðu)*, þgf. flt. *heruðum; dómari*, þgf. flt. *dómurum; leita, leituðum*. Þetta *u* breytir aptr *a* í rótarsamstöfunni í **ö**, t. d.: *annarr*, nf. kvk. *önnur; kalla, kölluðum* (hlutto. nút. sem endast á *-andi*, hefir *-öndum* en ekki *-undum* í þgf. flt., 46. gr. a, 1.).

Athgr. Í nokkrum orðum má finna bæði *u* og *ö* í beygingar- og afleiðsluendingum, og er hið síðar talda nú algengt í daglegu tali (*óðal*, flt. *óðul* og *óðöl; vesall*, nf. kvk. eint. og hvk. flt. *vesul* og *vesöl*).

c) Á hinum elztu tímum olli og *u* því hljóðvarpi, að **á** breyttist í **ó**, en *á* bar það þó síðar ofrliði og útrýmdi því. Þó hélzt *ó*-hljóðið jafnhliða í orðunum *nótt* og *nátt, ambótt* og *ambátt;* sömuleiðis í *ól* og *ál, spónn* og *spánn*. Nú eru að eins brúkaðar myndirnar *nótt, ól, spónn*.

d) Þegar **v** fer á eptir hljóðstöfunum **e** og **i**, hefir það þau áhrif, að þeir breytast í **ø** (en ekki í *ö*) og **y**, t. d.: *søkkva* af **sekkva (*sinkva); nøkkverr = nekkverr* (65. gr. a, 3); *syngva* (seinna *syngja)* af **singva*.

12. gr. i-hljóðvarpið er miklu fjölbreytilegra en *u*-hljóðvarpið, af því að þeir hljóðstafir eru miklu fleiri, er því hljóðvarpi taka. *i*-hljóðvarp er það, er **i** eða **j**, sem annaðhvort enn finnst í endingunni eða hefir átt þar heima á eldra stigi málsins, hefir þau áhrif á undanfarandi hljóðstaf, að

| | |
|---|---|
| **a** breytist í **e** | **o** breytist í **y** (sj. **ø**, **e**) |
| **á** — **æ** | **ó** — **œ** |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| **u** | breytist í | **y** | **ú** | breytist í | **ý** |
| **jo**, **ju** | — | **y** | **jó**, **jú** | — | **ý** |
| | | | **au** | — | **ey**. |

Dœmi: **a** — **e**: *tamr* — *temja*; *ben*, ef. *benjar; fagr* — mst. og yst. *fegri*, *fegrstr*. **á** — **æ**: *áss* — nf. flt. *æsir*. **o** — **y**: *sonr* — nf. flt. *synir*. Stundum breytist **o** með hljóðvarpi í **ø** (**e**): *koma* — *køm (kem)*; *hnot* — nf. flt. *hnøtr (hnetr)*. **ó** — **œ**: *bót* — nf. flt. *bœtr*, *bœta*; *stórr* — mst. og yst. *stœrri*, *stœrstr*. **u** — **y**: *fullr* — *fylla*; *ungr* — mst. yst. *yngri*, *yngstr*. **jo**, **ju** — **y**: *hjoggum*, *hjuggum* — *hyggi*. **ú** — **ý**: *mús* — nf. flt. *mýss; hús* — *hýsa*. **jó**, **jú** — **ý**: *skjóta* — *skýt*; *krjúpa* — *krýp*. **au** — **ey**: *lauss* — *leysa*; *hlaupa* — *hleyp*.

Athgr. 1. Eins og sjá má af dœmum þeim, er nú vóru tilfœrð, kemr *i*-hljóðvarpið mjög opt fyrir, þótt *i* það eða *j*, sem því hefir valdið, sé ekki framar til í orðinu. Hins vegar kemur *i* opt fyrir í endingum í íslenzku, sem engu hljóðvarpi veldr (*hani*, *stóli*, þgf. af *stóll*, *bundinn*, ekki *heni*, *stœli*, *byndinn)*; þetta kemr af því að þetta *i* er ekki *upprunalegt*, en er síðar inn komið í staðinn fyrir **e**, sem áðr hefir verið í endingunni. Þó eru þess stöku sinnum dœmi, að *i* veldr eigi hljóðvarpi, þótt það sé upprunalegt (*staðr* hefir í nf. flt. *staðir*, en ekki *steðir*).

Athgr. 2. Opt hefir **r** það, er upprunalega hefir verið „*lint*“ *s (z)*, sömu áhrif á undanfarandi hljóðstaf sem upprunalegt *i* eða *j*, t. d. **a** — **e**: *gler* (fornd. *glar); ker* (d. *kar*, got. *kas)*, **á** — **æ**: *lœr* (d. *lår*), *tvær*, *þær* (af *sá* sbr. got. *þôs)*; **o** — **ø**: *kørinn* (af *kjósa)*, *ør*-, neitandi forskeyti (*ørviti* o. s. frv., got. *uz*-); **ú** — **ý**: *kýr* (þf. *kú)*; *sýr* (þf. *sú*, lat. *sus)*; **jú** — **ý**: *dýr* (fornsœ. og fornd. *diur*, got. *dius)*; **au** — **ey**: *eyra* (got. *auso)*.

Athgr. 3. Stundum getr **k** og **g** breytt undanfarandi **a** í **e**: *taka*, hlutto. fort. *tekinn* (d. *tagen*), *draga*, hlutto. fort. *dreginn* (d. *dragen*).

13. gr. Þegar svo stendr á, að **a** ætti að taka bæði *u*- og *i*-hljóðvarpi (þ. e. þegar eptir það fer, eða á eldra stigi málsins hefir farið, annaðhvort **vi** eða **vj**), breytist það í **ø** (ekki í *ö*), t. d. *søkkva*, þát. *søkta* af **sakkvja* (*sankvja); *höggva* (af **haggva)*, nút. *høggr* (af **haggvir)*; *øx* (sbr. got. *aqizi* ɔ: *akvizi)*; *gøra*, eldra *gørva* (af **garvjan)*.

14. gr. Klofning kallast sú hljóðbreyting, er uppruna-

legt **e (i)** breytist í **ja**, eða, þegar *u*-hljóðvarp á sér stað, í **jö**. Þessi hljóðbreyting verðr vanalega á undan *r* og *l* með eptirfarandi samhljóðanda: *bjarga* (sbr. þ. *bergen*), *fjörðr*, ef. *fjarðar* (sbr. e. *firth); gjalda* (sbr. þ. *gelten); skjöldr*, ef. skjaldar (sbr. þ. *schild)*. Klofning verðr og, þótt öðruvísi sé á statt, en þó er það sjaldnar: *gjöf*, ef. *gjafar* (en *gefa*). Stundum eru tvær myndir af hinu sama orði alveg jafnhliða, önnur með klofningu, hin án hennar: *bjarg* og *berg*, *fjall* og *fell*, *spjall* og *spell*, *gjalla* og *gella*.—Klofning verðr aldrei, er *v* fer á undan: *verða*, *svella* (bólgna), sbr. þ. *werden, schwellen;* hún verðr og eigi í þeim myndum orða, er annars taka *i*-hljóðvarpi *(fjörðr, skjöldr*, þgf. *firði, skildi*, nf. flt. *firðir, skildir; bjarga, gjalda*, nút. *berg, geld*.

15. gr. Hljóðstafslenging. a) Hljóðstafir lengjast til uppbótar fyrir úrfelda samhljóðendr: *gás* (sbr. þ. *gans); lá* (f. **lag* af *liggja), þá* (f. **þag* af *þiggja), brá* (f. **bragð* af *bregða; í* (fors.; sbr. gr. *ἐν*, þ., e., lat. *in*). Í endingu einsatkvæðisorða lengjast hljóðstafirnir ávalt, þótt enginn samhljóðandi hafi fallið aptan af orðinu: *sá* vísiforn.

b) Sömuleiðis lengist hljóðstafr á undan **tt**, þegar þau eru fram komin á þann hátt, að undanfarandi gómstafr hefir tillíkzt *t: átta, nátt* eða *nótt, réttr, dóttir* (sbr. þ. *acht, nacht, recht, tochter)*.

c) Á undan *lk, lg, lp, lf* og *lm* hefir **a**, **o** og **u** töluvert snemma breytzt í **á**, **ó**, **ú** *(fólk, hjálpa, úlfr, hjálmr* o. s. frv.). Sömuleiðis *háls* og *skáld*. Þó breytist rótarstafr þessara orða í **e** og **y**, er þau taka *i*-hljóðvarpi, eins og rótarstafrinn væri **a**, **o** eða **u** *(kálfr — kelfa, tólf — tylft)*. Hins vegar breytist **á** ekki í **ö**, þótt **u** fari á eptir *(hjálmr* — þgf. flt. *hjálmum*, en ekki *hjölmum)*.

Athgr. Í núverandi máli verða enn fleiri hljóðlengingar, sem ekki finnast í fornmálinu, og skal hér getið þessara: a) Á undan **ng** og **nk** breytist: **a** í **á** *(lángr* f. *langr); **i** — **í** (þíng* f. *þing); **u** — **ú** (úngr, múnkr* f. *ungr, munkr*); **y** — **ý** *(lýng* f. *lyng);* **e** — **ei** *(leingi* f. *lengi*); **ö** — **au** *(laung, haunk* f. *löng, hönk*). — Þessi hljóðlenging er sjaldan sýnd í ritmáli, en er algeng í daglegu tali víðast hvar á landinu. — Eldri er hljóðlengingin í *kóngr*, með því að það er samandregin mynd í staðinn fyrir *konungr*. — b) Á undan **g** breytast opt, einkum þegar *i* eða *j* fer á eptir:

a — æ (*bæji, hæji* f. *bagi, hagi*); i — í (*hníji, klíja* f. *hnigi, kligja*); y — ý (*lýji* f. *lygi*); e — ei (*deiji, seija* f. *degi, segja*); ŏ — au (*saujin, draujin* f. *sögin, drögin*). Þessi lenging er heldr ekki sýnd í ritmáli. — c) Í þát. nokkurra sagna (81. gr.) breytist: e — é (*fékk, féll, gékk, hékk, hélt* f. *fekk, fell, gekk, hekk, helt*); ø (e) — é (*néri, snéri, gréri, réri* f. *gnøra, snøra, grøra, røra* eða *gnera* o. s. frv., sbr. 94. gr. a). — Einstöku sinnum hefir hljóðlenging orðið, þótt öðruvís sé á statt t. d. *Árni* f. *Arni*.

16. gr. Stytting hljóðstafa. Hljóðstafir styttast opt í íslenzku í einkvæðum orðum, er þau mynda fyrri hluta samsettra orða (t. d. *Þorsteinn* og önnur þau nöfn, er samsett eru með nafninu *Þórr*, ef seinni hlutinn byrjar ekki með hljóðstaf eða *h: Þóroddr, Þórhildr;* þó fylgir *Þórdís* ekki þessari reglu). — Sú stytting að **ei** breytist í **e** er í sumum orðum mjög gömul *(engi, ekki* f. **einn-gi, *eitt-ki).* Allgömul er og sú breyting að **í** breytist í **i** á undan **nn** og **tt** í eignarfornöfnunum: *mínn, þínn, sínn,* þótt *í* sé haldið fyrir framan einfalt *n.* — Gömul er og styttingin **á ó** í *gott* (hvk. af *góðr)* f. *gótt; utan, utar* (f. *útan, útar*; sbr. *út, úti), ytri, yztr* (f. *ýtri, ýztr*); *honum* og *hon* f. *hánum (hónum), hón.*

Athgr. Í núverandi máli styttast hljóðstafir opt sökum stöðu sinnar (við „position“) einkum á undan tvöföldum samhljóðanda (*drottinn* f. *dróttinn, litlir* o. s. frv. af *lítill*). Af öðrum hljóðstyttingum í núverandi máli má helzt telja breytinguna á *vá (vó)* í *vo: vo, voð, von, vopn, vorkunn, þvottr* o. s. frv. (f. *vá, váð, ván, vápn, várkunn, þváttr* o. s. frv.)

17. gr. Úrfelling hljóðstafa. Þegar talað var um *u-* og *i*-hljóðvarpið hér að framan, vóru tilfœrð nokkur dœmi til þess, að það *u* eða *i,* sem valdið hefði hljóðvarpinu, hefði síðar niðr fallið. Auk þess sem þar er getið falla hljóðstafir úr sem hér segir:

a) Í afleiðsluendingum þeim, sem enda á **l, n, r** með undanfarandi hljóðstaf, er sá hljóðstafr vanalega niðr feldr á undan þeim beygingarendingum, sem byrja á hljóðstaf: *gamall,* nf. flt. í kk. *gamlir; aptann,* þgf. *aptni; jötunn,* nf. flt. *jötnar; hamarr,* þgf. *hamri; auðigr,* nf. flt. í kk. *auðgir.* Sömuleiðis *höfuð,* þgf. *höfði.*

b) Stuttr hljóðstafr fellr niðr eptir langan, einkum **a** eptir

**á**; **u** eptir **á**, **ó** og **ú**; **i** eptir **é**, t. d.: *blár*, þf. eint. í kk. *blán* (f. **bláan*), þgf. eint. í kk. *blám* (f. **bláum*); *kló*, þgf. flt. *klóm* (f. **klóum*); *bú*, þgf. flt. *búm* (eða *búum*); *sénn* (f. **séinn*); *lé* (f. **léi*, nú *ljár*).

**Athgr. Í hinum yngri handritum er og stuttum hljóðstöfum opt haldið eptir hina löngu. Í núverandi máli er þeim vanalega haldið (*bláan*, *bláum* o. s. frv.). Í einstökum orðum er þó að eins brúkuð samandregna myndin: *kúm*, *klóm*, *ám* (af *kýr*, *kló*, *ær* og *á*, — hins vegar *áum* af *áir*).**

18. gr. Hljóðstafsinnskot. Þegar **r** stendr í niðrlagi orða eptir einhvern annan samhljóðanda en *r*, er í núververandi máli skotið **u** inn á milli *r*-sins og hins undanfarandi samhljóðanda: *hestur*, *maður*, *akur* o. s. frv. í stað hinna eldri mynda: *hestr*, *maðr*, *akr* o. s. frv. (hins vegar *stór* fyrir eldra *stórr*).

19. gr. **éa** og **éu** breytist í **já** nema þegar *v* fer á undan (sbr. 14. gr. niðrl.): *fé*, ef. *fjár* (f. *féar*, sem finna má í fornum kvæðum), þgf. flt. *fjám* (f. **féum*); *lé* þf. *ljá* (f. **léa*); *sjá* (f. *séa* í fornum kvæðum), flt. í nút. *sjám* (f. **séum*). Hins vegar hefir *vé* (= helgidómr) í þgf. og ef. flt. *véum*, *véa*.

**Athgr. Í sagnorðum er í nýja málinu skotið *u* inn í endinguna eptir *já*, t. d. *sjáum*, *tjáum* f. *sjám*, *tjám* (sbr. 17. gr. b. athgr.).**

20. gr. Aðrar hljóðbreytingar. Í hinum fornu handritum eru margar aðrar breytingar, og eru þær einkum í því fólgnar, að ýmsir stafir skiptast á, t. d.: **i** og **e** (*landi* og *lande*); **u** og **o** (*sunr* og *sonr*, *tungur* og *tungor*); **ú** og **ó** (*ú*- og *ó*-, neitandi forskeyti, *úr* og *ór*, *búandi* og *bóandi*); **y** og **ø** (*syni* og *søni*); **y** og **œ** (*flýja* og *flœja*); **y** og **i** (*fyrir* og *firir*, *þykkja* og *þikkja*).

## Samhljóðendr.

21. gr. Tillíking.

a) Undanfarandi samhljóðandi tillíkist eptirfarandi samhljóðanda:

1. **ðt** breytist í áherzluatkvæði eptir hljóðstaf í **tt**: *bráðr*

hvk. *brátt* (f. **bráðt); glaðr*, hvk. *glatt;* eptir samhljóðanda og í endingu fleirkvæðra orða í **t**: *segja*, hlutto. fort. hvk. *sagt* (f. **sagðt); kalla*, hlutto. fort. hvk. *kallat* (f. **kallaðt).*

**ddt** breytist eptir hljóðstaf í **tt**: *ræða*, hlutto. fort. í hvk. *rætt* (f. **ræddt);* **dt** eptir samhljóðanda breytist í **t**: *blindr*, hvk. *blint* (f. *blindt).*

2. **nt, nnt** breytist stundum í **tt** í áherzluatkvæði: *vöttr* = d. *vante; hitt* f. **hint; mítt (mitt), þítt (þitt), sítt (sitt); sannr*, hvk. *satt* (f. **sannt*). Í endasamstöfunni *-int* breytist **nt** í **t**: *gefinn*, hvk. *gefit* (f. **gefint).* Sömuleiðis er hvorugkyn af greininum *(h)it* (en ekki *(h)int*).

3. **nk** breytist í **kk**: *drekka* (sbr. þ. *trinken); ekkja, bekkr* (= d. *enke, bænk).* Þó helzt *nk* í *hönk, hanki.*

4. Auk þessa verða þessar tillíkingar í einstökum orðum: **(t)tk** — **kk**: *ekki* (f. *et(t)-ki* úr **eitt-gi);* **mp** — **pp**: *svöppr* (d. *svamp); stappa* og *stampa; kappi* og *kempa;* **mb** — **bb**: *klumba* og *klubba;* **ðl** — **ll**: *brullaup* (f. *brúðhlaup), friðla* og *frilla, Hrolleifr* (f. *Hróðleifr), miðlum* og *millum;* **rl** — **ll**: *jarl* og *jall, karl* og *kall, Þorlákr* og *Þollákr;* **rs** — **ss**: *fors* og *foss, vers* og *vess.*

Athgr. Í núverandi máli verða enn fleiri tillíkingar í daglegu tali, t. d. *abbragð* (f. *afbragð*), *obboð* (f. *ofboð*) o. s. frv.

b) Eptirfarandi samhljóðandi tillíkist undanfarandi samhljóðanda:

**nr** og **lr** breytist eptir langa hljóðstafi og í afleiðsluendingum, og *stundum* endranær, í **nn** og **ll**: *steinn* (f. **steinr); vænn*, ef. flt. *vænna* (f. **vænr, *vænra); stóll* (f. **stólr), heill*, ef. flt. *heilla* (f. **heilr, *heilra); aptann* (f. **aptanr), lykill* (f. **lykilr).* Sömuleiðis *hann* og *vill.* Hins vegar verðr tillíkingin ekki í *sonr, dalr* o. s. frv., því að þar er rótarstafrinn stuttr.

**sr** breytist í **ss** í niðrlagi orða og opt í miðju þeirra: *íss* (f. **ísr); less* (f. **lesr); lauss* (f. **lausr),* ef. flt. *laussa* eða (seinna) *lausra.*

22. gr. Af öðrum breytingum samhljóðanda skal þessara getið:

1. Eptir **t** og **s** breytist **g** í **k**: *hvatki* (f. **hvat-gi*); *engi,*

ef. *enskis* (f. **ensgis).* *k* helzt og vanalega, þótt *t* og *s* sé niðr felt: *hvárki* = *hvártki*; *enkis* = *enskis.*

2. **nnr** breytist stundum í **ðr**: *maðr* (f. *mannr*, sem finna má í fornkvæðum), *annarr*, nf. í flt. í kk. *aðrir* (f. **annrir).*

23. gr. Tvöföldun samhljóðanda. Enginn samhljóðandi getr tvöfaldazt eptir annan samhljóðanda, t. d.: *hrista*, hlutto. fort. í kk. *hristr* (f. **hrist-tr)*; *senda*, þát. *senda* (f. **send-da)*; *fingr, vetr* (f. **fingr-r, *vetr-r)*; *háls*, ef. *háls* (f. **háls-s).* Hinn sami samhljóðandi getr því ekki heldr staðið þrysvar eða optar í röð, t. d.: *hitta*, hlutto. fort. í kk. *hittr*, kvk. *hitt*, hvk. *hitt* (f. **hitt-tr, *hitt-t, *hitt-tt)*; *kurr* (f. **kurr-r)*; *sess*, ef. *sess* (f. **sess-s).*

Athgr. 1. t tvöfaldast opt í niðrlagi orða eptir langan hljóðstaf: *grár*, hvk. *grátt, bjó, bjótt; þótt* (f. *þót* úr *þóat*). *r* og *s* geta og stundum tvöfaldazt sem beygingarendingar eptir langa hljóðstafi, t. d.: *grárr, grárri, gráss* = *grár, grári, grás* (*s* einnig eptir stutta hljóðstafi: *hirðiss* = *hirðis.*

Athgr. 2. Nú tvöfaldast *r* og *s* vanalega í vissum föllum nafnorða, lýsingarorða og fornafna (sjá beygingarfr.).

24. gr. Úrfelling samhljóðanda. Þess hefir verið getið og til þess færð nokkur dœmi, að hálfhljóðarnir *v* og *j* eru opt niðr feldir í beygingunni, en hljóðvarp það, er þeir hafa valdið, sýnir, að þeir hafa verið í orðinu (sjá 11.—13. gr.). Önnur dœmi, er sýni úrfelling samhljóðanda, má finna í 15. og 23. gr. Auk þessa skal þessara úrfellinga getið:

a) **r** fellr niðr 1) í nf. og þf. í hvk. og þf. í kk. í eint. af *annarr: annat, annan* (f. **annart, *annarn)*; 2) í 2. og 3. pers. eint. fyrir framan sigmyndarendinguna *-sk: (þú, hann) snýsk* af *snúa* (f. **snýr-sk)*; 3) í niðrlagi orða eftir *ss* og eptir einfalt *s, l,* og *n* með undanfarandi samhljóðanda: *sess* (f. **sessr), hvass* (f. **hvassr)*; *háls* (f. **hálsr), lax* (f. **laxr), vex* (f. **vexr)*; *fugl* (f. **fuglr)*; *hrafn* (f. **hrafnr).* Samkvæmt 23. gr. hlýtr það einnig að falla niðr á eptir *r* með undanfarandi samhljóðanda: *akr* (f. **akr-r).* Aptr er *r* haldið eptir *ll* og *nn*: *hallr, allr, fellr, munnr.*

Athgr. Stundum fellr *r* niðr eptir *n* með undanfarandi hljóðstaf: *son, vin, mun, Hákon* (f. *sonr, vinr, munr, *Hákonr*).

b) **g** fellr vanalega niðr í enda hinna sterku sagna í þátíð, þannig að *-ag* og *-óg* -breytist í *-á* (sbr. 15. gr. a.) og *-ó*, og *-aug* og *-eig* getr breytzt í *-ó* og *-é* (sjá 77.—80. gr.).

Athgr. Í upphafi orða fellr **g** snemma niðr á undan **l** í *líkr* (f. *glíkr*); enn fremr opt á undan **n**: *nógr, neisti, nauða* (f. *gnógr, gneisti, gnauða*).

c) **v** fellr niðr í niðrlagi orða, og þegar það stendr milli tveggja samhljóðanda, og vanalega á undan *o, ó, u, ý* og *œ*: *söngr*, þf. *söng* (f. **söngvr*, **söngv*, en þgf. *söngvi*); þgf. flt. *söngum; völva*, ef. *völu; verða*, þát. *varð*, flt. *urðu*, viðtengh. *yrða*, hlutto. fort. *orðinn; vaða*, þát. *óð*, viðtengh. *œða; v* er þó haldið eptir langan hljóðstaf á undan *u: sær*, þgf. flt. *sævum*.

Athgr. Þessi regla gildir einnig vanalega nú (þó helzt *v* nú einnig opt á undan *o, ó, u, ý* og *œ*, t. d.: *söngvum, vóð, væði*, (*vér*) *höggvum, völvu* o. s. frv.). Nú fellr og *v* stundum niðr, þar sem það hélzt í fornmálinu: *þí, so, sona* (f. *því, svá, svána*, sbr. 26. gr.).

d) **j** fellr niðr á undan *i: temið, vili* (f. **temjið*, **vilji*). Í miðju orðs fellr *j* og niðr á undan *a* og *u*, þegar rótarsamstafan er *löng*, en sé hún *stutt*, er því haldið. Í niðrlagi orða á hið gagnstœða sér stað; þar fellr *j* niðr, þegar rótarsamstafan er *stutt*, en er haldið, þegar hún er löng, og breytist þá í **i**: *dœma, dœmi, dœmum*, en *temja, tem, temjum*. Þau orð, er hafa langa rótarsamstöfu, sem endar á *k* eða *g*, halda þó *j* á undan *a* og *u* (*vígja*), og með þau orð, er hafa langa rótarsamstöfu, er endar á hljóðstaf, er farið eins og þau orð, er hafa stutta rótarsamstöfu (*dýja* = skekja).

Athgr. Nú helzt *j* á undan *i* eptir stutta rótarsamstöfu (*temjið, vilji*).

e) **h** fellr opt niðr í byrjun síðari hluta samsettra orða: *frjáls* (f. **fríhals*), *ør(h)œfi, afr(h)endr, lík(h)amr, ein(h)arðr, varð(h)ald, Ill(h)ugi*.

f) Þegar þrem eða fleiri samhljóðöndum lendir saman í niðrlagi samstöfu, er opt sá eða einhver þeirra, sem í miðið eru (sjaldan hinn fyrsti), úr feldr í framburðinum: *Íslans* f. *Íslands, danst* f. *danskt, hess* f. *hests, fystr* f. *fyrstr, þoskr* f. *þorskr* o. s. frv. Þar sem *r* og *t* sökum úrfellingar samhjóðanda lendir saman við eptirfarandi *s*, tillíkjast þeir því og verðr úr *ss: bass* f. *bar(n)s, Bjöss* f. *Björ(n)s, vass* f. *vat(n)s, boss* f. *bot(n)s*.

25. gr. Aðrar breytingar samhljóðanda.

1. **s** breytist í **r**: *vera* og (eldra) *vesa* (77. gr.), *er* og *es* (63. gr.).

2. **fn** og **mn** skiptast á: *jafn* og *jamn*, *safna* og *samna*, *sofna* og *somna*; *jafn-* og *jam-* í samsetningum.

3. **v** breytist í **j**: *syngja*, *byggja* (f. *syngva*, *byggva*) o. s. frv.

4. Margar breytingar, sem sjaldan eða aldrei finnast í hinum beztu handritum, eru algengar í nýja málinu; þannig breytist: **t** — **ð** í niðrlagi orða: *við*, *(þ)ið*, *lítið*, *(h)ið* (f. *vit* o. s. frv.); **k** — **g**: *ég*, *mjög*, *mig*, *þig*, *sig* (f. *ek*, *mjök* o. s. frv); **kn** — **hn**: *hnútr*, *hnífr*, *hné*, *hnappr* (f. *knútr*, *knífr* o. s. frv.); **fn** — **hn**: *hnjóskr*, *hnykr* (f. *fnjóskr*, *fnykr)*; **hv** — **kv** (víða): *kvur*, *kvurt* (f. *hverr* og *hvárr*, *hvert* og *hvort)*; **r** — **ð**: *freðinn*, *áfreðar* (f. *frørinn* o. s. frv.)

Athgr. Innskot samhljóðanda. Fyrir kemr það í núverandi máli, að samhljóðanda, sem ekki finnst í fornmálinu, er skotið inn í orð eða hann er skeyttr aptan við þau, t. d.: *s(k)jaldan*, *þau(g)*, *þetta(ð)*, *gjarna(n)*, *þenna(n)*.

26. gr. Samdráttr. **v** og eptirfarandi hljóðstafr dragast opt saman, svo að úr þeim verðr einfaldr hljóðstafr: **va** — **o**: *kvam* og *kom*; **ve** — **o** og **u**: *koma* (f. **kvema)*. *kona* (f. **kvena)*; *dagverðr* og *dögurðr*, *öndvegi* og *öndugi*; **vá** — **ó**: *kvámum* og *kómum*; **vi** — **y**: *kvirr* og *kyrr*, *einvirki* og *einyrki*; **ví** — **ý**: *svíkva* og *sýkva*.

27. gr. Stafavíxlan. Stafir hafa stundum sætaskipti í íslenzku og skal hér getið: **ro** — **or**: *brot(t)* og *bort* (*burt*), *hross* og *hors*; **ar** — **ra**: *argr* og *ragr*; **ri** — **ir**: *Grikkir* og *Girkir*.

Athgr. Nú verða enn fleiri stafavíxlanir í daglegu tali, einkum á undan *d* og *t*, t. d. **fl** — **lf**: *tefldi* og *telfdi*, *efldi* og *elfdi*, *teflt* og *telft*, *eflt* og *elft*; **lg** — **gl** og **gl** — **lg**: *telgdi* og *tegldi*, *sigldi* og *silgdi*, *stegldi* og *stelgdi*; **gn** — **ng**: *gegndi* og *gengdi*.

# II. Beygingarfrœði.

## Nafnorð.

28. gr. Beyging nafnorða í íslenzku verðr með tvennum hætti. Kallast önnur hin sterka, en hin hin veika. Í sterku beygingunni endar eignarfall eintölu ávalt á samhljóðanda, en í veiku beygingunni endar öll eintalan á hljóðstaf.

### A. Sterka beygingin.

Þessi beyging skiptist í 3 flokka. Í fyrsta flokki eru bæði karlkend, kvennk. og hvorugk. orð, í öðrum karlkynsorð ein og í hinum þriðja bæði karlkyns og kvennkynsorð.

### Fyrsti flokkr.

29. gr. a) Karlkyn og hvorugkyn endar í ef. eint. á **-s**, í þgf. á **-i**, kvk. í ef. á **-ar**, í þgf. á **-u** (eða er endingarlaust); flt. í kk. nf. og þf. á **-ar**, **-a**, kvk. á **-ar** (seinna opt **-ir**), hvk. er endingarlaust. Sem dœmi, er sýni beygingu þessa flokks, má taka í kk. *úlfr*, í kvk. *laug*, í hvk. *orð*.

| | | karlkyn | kvennk. | hvorugk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | úlfr | laug | orð |
| | þf. | úlf | laug | orð |
| | þgf. | úlfi | laugu, laug | orði |
| | ef. | úlfs | laugar | orðs |

| | karlk. | kvennk. | hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Flt. nf. | úlfar | laugar | orð |
| þf. | úlfa | laugar | orð |
| þgf. | úlfum | laugum | orðum |
| ef. | úlfa | lauga | orða. |

b) Í þeim orðum, er hafa a í stofninum, breytist það með *u*-hljóðvarpi í ö (11. gr. a); þetta hljóðvarp verðr allsstaðar í þgf. flt., og auk þess í nf., þf. og þgf. eint. í kvk. og í nf. og þf. flt. í hvk. Sem dœmi má taka í karlk. *armr*, í kvk. *vök*, í hvk. *land*:

| | karlk. | kvennk. | hvorugk. |
|---|---|---|---|
| Eint. nf. | armr | vök | land |
| þf. | arm | vök | land |
| þgf. | armi | vöku, vök | landi |
| ef. | arms | vakar | lands |
| Flt. nf. | armar | vakar, vakir | lönd |
| þf. | arma | vakar, vakir | lönd |
| þgf. | örmum | vökum | löndum |
| ef. | arma | vaka | landa |

30. gr. a) Eins og kvennkynsorðin opt (mörg ávalt) eru endingarlaus í þgf. eint., þannig getr -i einnig fallið niðr í þgf. eint. í kk. (*eldi, eld* af *eldr*, *Þór* af *Þórr* og yfir höfuð opt í orðum, er hafa langan rótarhljóðstaf, þannig vanalega í þeim orðum, er enda á *-leikr)*. Í orðum þeim, er enda á *-ingr*, *-ungr* í kk. og *-ing*, *-ung* í kvk., fellr endingin og stundum niðr í þgf.; þó er það mjög sjaldan.

b) Fleirkvæð kvennkennd eiginnöfn endast á -u eigi að eins í þgf., heldr og í þf., t. d. *Ingibjörg, Guðrún*, þf. *Ingibjörgu, Guðrúnu*, ef. *Ingibjargar*, *Guðrúnar*. Fá orð önnur en eiginnöfn hafa *-u* í þf. í fornmálinu (*kerlingu*), en nú er slíkt algengt í orðum þeim, sem enda á *-ing* og *-ung* (*drottningu*, og ávalt með greininum *drottninguna*). Einkvæð eiginnöfn eru hins vegar endingarlaus bæði í þf. og þgf. (nf. þf. og þgf. *Hlíf, Hlökk*, ef. *Hlífar, Hlakkar*).

31. gr. Eins og orð þau, er hér hafa verið til fœrð sem dœmi, beygjast flest kk.- og hvk.-orð. Nokkur karlkynsorð hafa hins vegar -ar í ef. eint., eru vanalega endingarlaus í

þgf., og hafa -ir, -i í nf. og þf. flt. Sömuleiðis hefir mestr hluti kvennkynsorða í íslenzku að eins endinguna -ir í nf. og þf. flt. (og eru vanalega endingarlaus í þgf. eint.). Til þess að sýna beyging þessara orða má taka sem dœmi í kk. *burðr*, *staðr*, og í kvk. *sótt*, *önd*.:

| | karlk. | | kvennk. | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. nf. | burðr | staðr | sótt | önd |
| þf. | burð | stað | sótt | önd |
| þgf. | burð(i) | stað | sótt | öndu, önd |
| ef. | burðar | staðar | sóttar | andar |
| Flt. nf. | burðir | staðir | sóttir | andir |
| þf. | burði | staði | sóttir | andir |
| þgf. | burðum | stöðum | sóttum | öndum |
| ef. | burða | staða | sótta | anda |

32. gr. Nokkur kk.-orð mega að nokkru leyti teljast til 29. gr., en að öðru leyti til 31. gr., þar sem þau hafa *-s* í ef., en vanalega *-ir*, *-i* í flt.: *hamr*, ef. *hams*, nf. flt. *hamir*, þf. *hami*; *dalr*, ef. *dals*, nf. flt. *dalir* (sj. *dalar*), þf. *dali* (sj. *dala*). — Önnur hafa vanalega *-ar* í ef., en *-ar*, *-a* í flt.: *skógr*, ef. *skógar* (sj. *skógs*), nf. flt. *skógar*, þf. *skóga*; — *dagr* hefir í þgf. *degi*, en beygist að öðru leyti sem *armr*.

33. gr. Samkvæmt hljóðreglum þeim, er ritaðar hafa verið hér að framan, verða nokkrar breytingar á beygingunni og eru þessar hinar helztu:

a) Í þeim kk.-orðum er enda á einföldu -l og -n eða -r og -s með undanfarandi samhljóðanda fellr *r* niðr í nf. eint., sem þá verðr eins og þf.; í þeim, sem enda á -s, fellr *s* og niðr í ef. eint., sem þá verðr eins og nf. og þf., t. d.: nf., þf. *karl*, *hrafn*, *akr*, *háls*, ef. *karls*, *hrafns*, *akrs*, *háls*, nf. flt. *karlar*, *hrafnar*, *akrar*, *hálsar*. (Aptr er nf. *hall-r*, *munn-r*; þó er *hvinn* óreglulegt, *r*-laust í nf.; en um *kurr*, *sess* fer samkvæmt 23. gr. og 24. gr. a, 3).

Af orðum þeim, þar sem *r* heyrir stofninum til, og sem að öðru leyti beygjast sem *akr*, hafa *gróðr*, *meldr*, *rekstr*, *veðr* (= hrútr) *-ar* í ef.; enn fremr hefir *hlátr* vanalega *hlátrar* í ef. í fornmálinu, en nú *hlátrs*.

Athgr. Fyrir kemr það, þótt sjaldan sé, að *r* fellr niðr í öðrum orðum: *vinr* eða *vin*; *Hákon*, og nokkur önnur nöfn, t. d. *Auðunn* (af **Auðunr*

21. gr. b.) eða *Auðun*. — Orðin *guð* (upprunalega hvk.) og *biskup* (eldra *byskop*) hafa aldrei *r* í nf.

b) Í einkvæðum kk.-orðum, sem enda á -l, -n og -s með undanfarandi löngum hljóðstaf tillíkist **r** nefnifallsins hinu undanfarandi **l**, **n**, **s** og verðr **ll**, **nn**, **ss**, t. d.: *stóll, steinn, íss*, þf. *stól, stein, ís*, ef. *stóls, steins, íss*.

c) Tvíkvæð kk.-orð, sem eru mynduð með afleiðsluendingu á **l**, **n** eða **r** með undanfarandi hljóðstaf, enda í nf. eint. á **-ll**, **-nn**, **-rr** og fella niðr hinn undanfarandi hljóðstaf á undan þeim beygingarendingum, sem byrja á hljóðstaf (þgf. eint. og í allri flt.), t. d.: *dróttinn*, þf. *dróttin*, þgf. *dróttni*, nf. flt. *dróttnar, hamarr*, þgf. *hamri* o. s. frv. Sömu reglu fylgja og nokkur hvk.-orð: *gaman*, þgf. *gamni, sumar*, þgf. *sumri, höfuð*, þgf. *höfði*.

Athgr. Orðið *ketill* (sem einnig er eiginnafn) fær ekki hljóðvarp í hinum samandregnu myndum, (nf. eint. *ketill*, þf. *ketil*, þgf. *katli*, ef. *ketils*, nf. flt. *katlar*, þf. *katla*, þgf. *kötlum*, ef. *katla*). Af nafninu *Egill* og orðinu *lykill* má finna bæði hljóðörpnar myndir og hljóðvarpslausar (þgf. *Agli* og *Egli*; þgf. *lukli* og *lykli*, nf. flt. *luklar* og *lyklar*). — Í mörgum eiginnöfnum fellr hljóðstafrinn ekki niðr (*Gunnarr, Auðun(n)*, þgf. *Gunnari, Auðuni*). Kvk.-orðið *alin* beygist nú þannig: nf. þf., þgf. *alin*, ef. *álnar*, nf., þf. flt. *álnir*, þgf. *álnum*, ef. *álna*; en í fornmálinu hefir þetta orð í nf., þf., þgf. eint. vanalega *öln*, ef. *alnar*, nf., þf. flt. *alnar* og *alnir*, þgf. *ölnum*, ef. *alna*.

d) Í orðum, er enda á langan hljóðstaf, fellr eptirfarandi stuttr hljóðstafr niðr samkvæmt 17. gr. b, t. d.: kvk. *á* (nf., þf., þgf. *á*, ef. *ár*, nf., þf. flt. *ár*, þgf. *ám*, ef. *á*).

Athgr. 1. Kk.-orðið **skór** hefir í nf. flt. *skúar*, þf. *skúa*, þgf. *skóm*, ef. *skúa*. — Hvk.-orðin **kné**, **tré** hafa í nf. og þf. flt. *kné, tré*, þgf. *knjám, trjám*, ef. *knjá, trjá*, eptir 19. gr. — Hvk.-orðið **fé** hefir *-ar* í ef. (*fjár* úr **féar*), en beygist að öðru leyti eins.

Athgr. 2. Nú er beyging þessara orða nokkuð breytt, einkum að því leyti að stuttr hljóðstafr fellr sjaldan niðr eptir langan, þótt stofn orða endi svo; helzt verðr úrfelling í þgf. flt. og ef. flt., er greinirinn er skeyttr aptan við. Á orðunum *skór, kné, (tré), fé* verða þessar breytingar: **skór** hefir nú í flt. *skór, skó, skóm, skóa* (með grein. *skó-nna*); — **hné** og **tré** nú með greininum í eint. *hné-ð, tré-ð*, í flt. *hné-n, tré-n*; ef. flt. *hnjáa, trjáa* (með grein. *hnjá-nna, trjá-nna*); — **fé** nú í ef. *fjár* og *fés*, að öðru leyti sem *hné*.

34. gr. Í þeim orðum, þar sem meginhlutinn endast á v, fellr það niðr samkvæmt 24. gr. c, t. d. í kk. *söngr*, þf. *söng*,

þgf. *söngvi*, ef. *söngs*, nf. flt. *söngvar*, þf. *söngva*, þgf. *söngum*, ef. *söngva;* í kvk. *ör*, þgf. *öru*, ef. *örvar* o. s. frv.; í hvk. *öl*, þgf. *ölvi* o. s. frv. — Nú eru þessi kk.- og kvk.-orð endingarlaus í þgf. eint.: *söng, ör.*

Athgr. 1. Þannig (en með *-ar* í ef., sbr. 32. gr.) beygjast og kk.-orðin **snær** og **sær**, sem hafa þrefalda mynd: *snær*, *snjár*, *snjór; sær*, *sjár*, *sjór* (ef. eint. og nf. flt. *sævar*, *sjávar*, *sjóvar* o. s. frv.).

Athgr. 2. Nú fellr *v* vanalega niðr í orðunum *snjór* og *sjór* í öllum föllum, t. d.: nf. *snjór*, þf. og þgf. *snjó*, ef. *snjós*, *snjóar* (*snjóvar*), nf. flt. *snjóar* (*snjóvar*), þf. og ef. *snjóa* (*snjóva*), þgf. *snjóum* (*snjóvum*), og eins í hvk.-orðum: þgf. *öli*; ef. flt. *fræa* (eldra *fræva*).

35. gr. Mörg eru þau orð í öllum kynjum, þar sem meginhlutinn endast á **j**; þó fellr þetta *j* opt niðr í beygingunni eða breytist í **i**. Þessi orð skiptast í tvo flokka í hverju kyni, eptir því hvort rótarsamstafan er stutt eða löng; þó fylgja flest þau kk.-orð, er hafa *g* eða *k* í stofninum á undan *j* með langri rótarsamstöfu, sömu reglu og þau orð, er hafa stutta rótarsamstöfu (sbr. 24. gr. d.). Sem dœmi, er sýni beygingu þessara orða, má taka í kk. *hirðir, beðr*, í kvk. *heiðr, ben*, í hvk. *klæði, kyn:*

| | karlkyn | | kvennkyn | | hvorugkyn | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | I. | II. | I. | II. | I. | II. |
| Eint. nf. | hirðir | beðr | heiðr | ben | klæði | kyn |
| þf. | hirði | beð | heiði | ben | klæði | kyn |
| þgf. | hirði | beð | heiði | ben | klæði | kyni |
| ef. | hirðis | beðs / beðjar | heiðar | benjar | klæðis | kyns |
| Flt. nf. | hirðar | beðir | heiðar | benjar | klæði | kyn |
| þf. | hirða | beði | heiðar | benjar | klæði | kyn |
| þgf. | hirðum | beðjum | heiðum | benjum | klæðum | kynjum |
| ef. | hirða | beðja | heiða | benja | klæða | kynja |

Um hvert kyn fyrir sig skal þess getið, er hér segir:

a) Karlkyn. 1. Eins og **hirðir** beygjast þau kk.-orð í íslenzku, sem enda á *-ir*, en þau eru að tiltölu heldr fá í óbundnum stíl, t. d.: *hellir, hersir, læknir, mœnir, víðir, þyrnir,* og nokkur eiginnöfn (*Mjöllnir*, hamar Þórs, *Grettir*, *Skírnir*, *Sverrir*).

Athgr. 1. *eyrir* er hljóðvarpslaust í flt.: *aurar, aura, aurum.* — *endir* kemr vanalega ekki fyrir nema í nf. eint., en í hinum öðrum föllum eru brúkaðar tilsvarandi myndir af *endi.*

Athgr. 2. Nú helzt nefnifalls-r-ið vanalega gegnum alla beyginguna (þó sjaldan í ritmáli): nf., þf., þgf., *læknir*, ef. *læknirs* (*læknis*), nf. flt. *læknirar*, þf. *læknira*, þgf. *læknirum*, ef. *læknira*; nf., þf., þgf. *hellir*, ef. *hellirs*, nf. flt. *hellrar*, þf. og ef. *hellra*, þgf. *hellrum*. Nú er og *endir* brúkað í öllum föllum í eintölu: nf., þf., þgf. *endir*, ef. *endirs*.

2. Eins og **beðr** beygjast mörg kk.orð, t. d.: *byrr*, *dynr*, *glymr*, *herr*; *bær* eða *býr*, *gnýr*, og auk þess mörg orð, er hafa *g* og *k* í stofninum og hafa langa rótarsamstöfu: *bekkr*, *belgr*, *drengr*, *drykkr*, *eykr*, *leggr*, *lækr*, *mergr*, *serkr* (*berserkr* ɔ: maðr í bjarnarfeldi), *strengr*, *veggr*, *vængr*. Sum af þessum orðum hafa í ef. bæði **-s** og **-jar**, t. d.: *þvengr*, *elgr*, ef. *þvengs*, *elgs* og *þvengjar*, *elgjar*; önnur hafa að eins annaðhvort **-s** (*drengr*, *belgr*) eða **-jar** (*byrr*, *hryggr*). Endingin **i** kemr mjög sjaldan fyrir í þgf. eintölu þessara orða.

Athgr. Orðið **herr** vantar nf. og þf. flt.; (aptr er þgf. og ef. *herjum*, *herja*). — **niðr** er í nf. og þf. flt. *niðjar*, *niðja*, en beygist að öðru leyti sem *beðr*.

b) Kvennkyn. 1. Eins og **heiðr** beygjast t. d.: *byrðr*, *ermr*, *eyrr*, *festr*, *herðr* (mest í flt. *herðar*), *merr*, *veiðr*, *øx* (f. **øxr*); enn fremr mörg kvennk. eiginnöfn, sem enda á *-r*, *-unn* (*-unnr*, *-uðr*), *dís* (*Gerðr*; *Iðunn*; *Þórdís*, þótt orðið *dís* beygist eins og *sótt* 31. gr.).

Athgr. 1. Orðið *gørsimi* (ef. eint. og nf. flt. *gørsimar*) endar á **-i** í nf. eint. — Enn fremr *fiski* (að eins í eint.), sem heldr **j** í ef. (*fiskjar*). — **brúðr** og **vættr** beygjast eins og *heiðr*, en hafa í nf. og þf. flt. *brúðir*, *vættir* (eins og *sótt* 31. gr.).

Athgr. 2. Nú endar nf. eint. á **-i** (*heiði*, *byrði*, *ermi*, *eyri*) nema í eiginnöfnum og orðunum *brúðr* og *æðr*, en að öðru leyti er beygingin hin sama.

2. Eins og **ben** beygjast t. d.: *hel*, *minjar* (flt.), *nyt*, *skyn* *syn* (*nauðsyn*), *ey*, *þý*, *egg*, *eng*; enn fremr nokkur eiginnöfn (*Frigg*, *Hel*, *Sif*, *Sigyn*, o. fl.); þgf. endar stundum á **-ju** (*helju*, *eyju* og *ey*).

Athgr. 1. **mær** beygist í öllum öðrum föllum en nf. eins og *ben* (þf. *mey*, þgf. *meyju*, sjaldan *mey*, ef. *meyjar* o. s. frv.).

Athgr. 2. **eng** hefir nú myndina *engi* og beygist í eint. sem *klæði* (og er þá hvk.); enn fremr hafa mörg orð þessa flokks skipt um kynferði í eint.; eru þau nú hvk. og beygjast í eint. eins og *kyn* (t. d.: *ben* [kvk. og hvk.], *hel*, *klyf*, *skyn*, *þý*). Flest þessara orða halda þó sínu upprunalega kynferði og beygingu í flt. (*engjar*, *klyfjar* o. s. frv.). — Nokkur orð halda kynferði sínu, en hafa jafnframt hinum fornu myndum fengið endinguna **-ja** í eint.: *ey* og *eyja*, *mær* eða *mey* og *meyja*, *Hel* og *Helja*, þf. *ey* og *eyju* o. s. frv.

c) Hvorugkyn. 1. Eins og **klæði** beygjast öll þau hvk.-orð, sem enda á **-i**, t. d.: *dæmi*, *enni*, *erfiði*, *kvæði* o. s. frv. Í þeim orðum, er hafa **g** eða **k** í stofninum, helzt **j** á undan *u* og *a* (í þgf. og ef. flt.), t. d.: *merki*, *ríki*, þgf. flt. *merkjum*, *ríkjum*, ef. *merkja*, *ríkja*.

Athgr. Orðið *læti* (flt.) hefir í þgf. og ef. *látum*, *láta*.

2. Eins og **kyn** beygjast t. d.: *ber*, *fen*, *flet*, *fyl*, *gren*, *men* (hálsfesti), *nef*, *net*, *nes*, *rif*, *sel*, *stef*, *veð*, *ver*, *grey* (tík), *egg*, *ný* (nýtt tungl), *skegg*, *ský*.

Athgr. *Þili* er í fornmálinu óreglulegt að því leyti, að það hefir **-i** í nf. og þf. eint. eins og *klæði*, en beygist að öðru leyti sem *kyn*.

## Annar flokkr.

36. gr. Til þessa flokks teljast nokkur kk.-orð, sem enda á **-ar** í ef. eint., á **-ir** í nf. flt., á **-u** í þf. Þar sem hljóðstafr stofnsins getr tekið hljóðvarpi, fá orðin *u*-hljóðvarp í nf. og þf. eint. og í þf. og þgf. flt., og *i*-hljóðvarp í þgf. eint. og nf. flt. Enn fremr verðr og klofning í mörgum af þessum orðum. Sem dæmi má taka: *viðr*, *völlr*, *fjörðr*:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | viðr | völlr | fjörðr |
| | þf. | við | völl | fjörð |
| | þgf. | viði | velli | firði |
| | ef. | viðar | vallar | fjarðar |
| Flt. | nf. | viðir | vellir | firðir |
| | þf. | viðu | völlu | fjörðu |

| | | | |
|---|---|---|---|
| þgf. | viðum | völlum | fjörðum |
| ef. | viða | valla | fjarða |

Athgr. Nú hafa öll þau orð, er beygjast eptir þessum flokki (eins og *viðr*, *völlr*, *fjörðr*), ávalt hina sömu mynd í þf. flt. sem í þgf. eint. (-i með *i*-hljóðvarpi, í staðinn fyrir -u með *u*-hljóðvarpi): *viði*, *velli*, *firði*.

a) Eins og **viðr** beygjast þau orð, er engu hljóðvarpi taka, t. d.: *kviðr* (úrskurðr), *kvistr*, *liðr*, *limr*, *litr*, *siðr*, *tigr* eða *tugr*. Orðin *friðr*, *kviðr* (magi) *verðr* (*dagverðr* eða *dögurðr*; *náttverðr* eða *nátturðr*) eru að eins höfð í eint.

b) Eins og **völlr** beygjast: 1. Þau orð, sem hafa **a** í stofninum, sem fá bæði *u*- og *i*-hljóðvarp, t. d.: *börkr*, *göltr*, *höttr*, *knörr* (ef. *knarrar*), *kökkr*, *köttr*, *lögr*, *mökkr*, *mölr*, *spölr*, *svöppr*, *völr* (sívalningr, stafr), *vöndr*, *vöttr* (vetlingr).

Athgr. Nú eru nokkur af þessum orðum stundum endingarlaus í þgf. eint. og fær þá þgf. sömu mynd og þf.; þó er hin upprunalega þágufallsmynd vanalegri (*kekki* og *kökk*, *mekki* og *mökk*) nema í eiginnöfnum (*Höð* og *Heði* af *Höðr*). — Sum orð hafa skipt um kynferði og þá um leið fengið aðra beygingu, t. d.: *þröm*, *örn* (áðr *þrömr*, *örn* kk., nú kvk.) beygjast nú eins og *önd* (31. gr.). Sum orð hafa klofnað í tvær orðmyndir, t. d.: *höttr* og *hattr*, *kökkr* og *kekkr*, og hefir þá hin nýja mynd fengið aðra beygingu; *hattr* beygist eins og *armr* (29. gr.), en *kekkr* eins og *beðr* (35. gr.). — *gröptr* heldr nefnifalls-*r*-inu í þgf. og ef. eint. *greptri*, *graptrar*. — *göltr* hefir í þgf. eint. bæði *gelti* og *gjalti* („verða að gjalti").

2. Þau orð, sem hafa **á** í stofninum, geta að eins tekið *i*-hljóðvarpi (*dráttr*, þf. *drátt*, þgf. *drætti*, ef. *dráttar*, nf. flt. *drættir*, þf. *dráttu*, þgf. *dráttum*, ef. *drátta*). Þannig beygjast t. d.: *árr*, *áss*, *blástr*, *gráðr* (græðgi), *spánn*, og þau kk.-orð, er enda á *-áttr*: *háttr*, *máttr*, *þváttr* o. s. frv.; að eins orðið *váttr* (vitni) beygist eins og *úlfr* (29. gr.).

Athgr. Á hinum elztu tímum breyttist *á* með *u*-hljóðvarpi í *ó* (11. gr. c), sem hélt sér í orðinu *spónn*, og hefir það algjörlega útrýmt *á* í því orði (nf. *spónn*, þf. *spón*, þgf. *spæni*, ef. *spóns*, nf. flt. *spænir*, þf. *spæni*, þgf. *spónum*, ef. *spóna*). — Af öðrum orðum, er teljast til þessa flokks, breyttist *þváttr* í *þvottr* (16. gr. athgr.), sem beygist eins og *úlfr* (29. gr.). — *árr* hefir nú optast myndina *ári* og beygist þá eins og *bogi* (42. gr.). — Í orð-

inu *blástr* helzt nefnifalls-*r*-ið í þgf. og ef. eint. og í allri flt. (þgf. *blæstri.* ef. eint. og nf. flt. *blástrar* o. s. frv.).

3. Orðin **bógr** og **sun(r)** eða **son(r)** beygjast þannig: nf. *bógr, son(r),* þf. *bóg, son,* þgf. *bægi, syni* (*søni*), ef. *bógar, sonar,* nf. flt. *bægir, synir* (*sønir*), þf. *bógu, sonu,* þgf. *bógum, sonum,* ef. *bóga, sona.*

Athgr. Nú beygist *bógr* eins og *úlfr* (29. gr.). — *sonr* er opt *r*-laust í nf. eint. (ávalt þegar það er skeytt aptan við eiginnöfn) og má snemma finna báðar myndirnar (sbr. 33. gr. a, athgr.).

e) **Í fjörðr** helzt hinn upprunalegi hljóðstafr að eins í þeim föllum, er enda **á i** eða **ir**; annars hefir hann breytzt í klofninginn **ja** (sbr. 14. gr.), sem aptr með *u*-hljóðvarpi breytist í **jö**. Þannig beygjast t. d.: *björn, hjörtr, kjölr, mjöðr, skjöldr, Njörðr.*

Athgr. Nú er eiginnafnið *Njörðr* og ýms sameignarnöfn opt endingarlaus í þgf. og verðr þá myndin hin sama og í þf. (*Njörð, kjöl,* f. *Nirði, kili*). — *kjölr* hefir optast *kjöls* í ef. eint. — *björn* hefir og opt *björns* í ef. í stað *bjarnar,* einkum sem eiginnafn, bæði einstakt og sérstaklega þegar það er skeytt framan við orðið *son: Björnsson.* — *mjöðr* hefir nú optast myndina *mjöð,* kvk., í eint., og beygist þá eins og *önd* (31. gr.).

## Þriðji flokkr.

37. gr. Eptir þessum flokki beygjast þessi 5 kk.-orð: **maðr, nagl, fingr, vetr, fótr,** og mörg kvk.-orð. Það er einkenni allra þessara orða, að þau fá í nf. og þf. flt. **-r** með *i*-hljóðvarpi, þegar hljóðstafr stofnsins getr tekið hljóðvarpi.

38. gr. Karlkyn. Þessi 5 orð beygjast þannig:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | maðr | nagl | fingr | vetr | fótr |
| | þf. | mann | nagl | fingr | vetr | fót |
| | þgf. | manni | nagli | fingri | vetri | fœti |
| | ef. | manns | nagls | fingrar | vetrar | fótar |
| Flt. | nf. þf. | menn | negl | fingr | vetr | fœtr |
| | þgf. | mönnum | nöglum | fingrum | vetrum | fótum |
| | ef. | manna | nagla | fingra | vetra | fóta. |

Í orðunum *nagl*, *fingr*, *vetr* fellr *r* niðr í nf. eint. og nf. og þf. flt. (23. gr. og 24. gr. a, 3); enn fremr varð og myndin *menn* mjög snemma svo algeng, að hún útrýmdi hinni fornu mynd *mennr* (eða *meðr* eins og *maðr* 22. gr. 2).

Athgr. 1. Orðið *mánaðr* beygist þannig: nf. *mánaðr* eða *mánuðr*, þf. *mánað* eða *mánuð*, þgf. *mánaði*, ef. *mánaðar* eða *mánaðr* (*mánuðr*); nf. flt. *mánaðr* (*mánuðr*) eða *mánaðir*, þf. *mánaðr* (*mánuðr*) eða *mánaði*, þgf. *mánuðum*, ef. *mánaða*.

Athgr. 2. Nú hefir orðið **nagl** skipt bæði um kyn og mynd, og heitir nú *nögl*, kvk., og beygist þannig; nf., þf., þgf. *nögl*, ef. *naglar* (*nagls* í samsetningum: *naglsrót*), nf., þf. flt. *naglir*, *neglur* og *nöglur*, þgf. *nöglum*, ef. *nagla*. — **fingr** hefir í ef. eint. *fingrs*, og **vetr** bæði *vetrs* og *vetrar*; **fótr** í ef. *fótar* og *fóts*. — *fingr* og *fótr* eru vanalega kvk. í flt. í daglegu tali (nf., þf. flt. *fingr*, *fœtr*, með greininum: *fingrnar*, *fœtrnar*). — **mánaðr** hefir nú myndina *mánuðr* og beygist þannig: nf. *mánuðr*, þf. *mánuð*, þgf. *mánuði*, ef. *mánaðar*, nf. flt. *mánuðir*, þf. *mánuði*, þgf. *mánuðum*, ef. *mánaða*.

39. gr. Kvennkyn. Kvennkynsorð þau, er teljast til þessa flokks, eru margfalt fleiri enn kk.-orðin. Í eint. beygjast þau vanalega eins og þau kvk.-orð, sem talin vóru í 29. gr. og 31. gr.; þó geta mörg orð, einkum þau, sem hafa **g** og **k** í stofninum, fengið **-r** og *i*-hljóðvarp í ef. eint. eins og í nf. og þf. flt. Sem dœmi má taka *geit*, *önd* (sbr. *straumönd*), *rót*, *mús*:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf., þf. | geit | önd | rót | mús |
| | þgf. | geit | önd | rót | mús |
| | ef. | geitar | andar | rótar | músar |
| Flt. | nf., þf. | geitr | endr | rœtr | mýss |
| | þgf. | geitum | öndum | rótum | músum |
| | ef. | geita | anda | róta | músa |

a) Eins og **geit** beygjast þau orð, er engu hljóðvarpi geta tekið, t. d.: *eik*, *greip*, *grind*, *hind*, *kinn*, *kverk*, *mjólk*, *rist*, *síld*, *skeið* (skip), *sæ(i)ng*, *vík*. — *kverk*, *mjólk*, *vík* hafa í ef. eint. *kverkr*, *mjólkr*, *víkr*; nokkur önnur orð hafa bæði *-r* og *-ar* í ef. eint. (*eikr* og *eikar*, *tíkr* og *tíkar*). — *grind* og

*skeið* hafa í flt. bæði *grindr*, *skeiðr* og *grindir*, *skeiðir* eða *skeiðar*.

Athgr. Nú hafa mörg þessara orða fengið endinguna *-ar* í nf. og þf. flt. (*greipar*, *kinnar*, *kverkar* f. *greipr*, *kinnr*, *kverkr*); önnur hafa fengið endinguna *-ir* (*hindir*, *síldir*).

b) Eins og **önd** beygjast þau orð, sem hafa **a** í stofninum, t. d. *mörk*, 1) = skógr (ef. *markar* og *merkr*), 2) = mörk í peningum (silfrs), vog eða mæli (ef. *merkr*), *rönd*, *spöng*, *strönd*, *stöng*, *töng*, *tönn*, *örk*. — Sum þessara orða geta haft endinguna *-u* í þgf. eint. (*ströndu* og *strönd*), og bæði *-ir* og *-r* í flt. (*strandir* og *strendr*). — **hönd** er í þgf. *hendi*, en beygist að öðru leyti sem *önd*.

Athgr. Nú hafa því nær öll þessi orð bæði *-ir* og *-r* í nf. og þf. flt. (*randir*, *strandir* (ætíð í eiginnafninu *Strandir*), *andir*, *spangir*, *tangir* og *rendr*, *strendr*, *endr*, *spengr*, *tengr*), og sum *-ir* eingöngu (*arkir*).

c) Eins og **rót** beygjast: 1. Þau orð, sem hafa **ó** í stofninum, t. d. *bók*, *bót*, *brók* (mest í flt. *brækr*), *glóð*; *kló* (flt. *klær*, þgf. *klóm*, ef. *klóa*), *fló*, *ló*, *ró* (á nagla og eggjárni), *þró*.

Athgr. *glóð* beygist nú eins og *sótt* (31. gr.); *þró* er í flt. *þrór*; — *ló* hefir fengið myndina *lóa* og beygist nú eins og *tunga* (42. gr.).

2. Þau orð, sem hafa **á** í stofninum, t. d. *gás* (flt. *gæss*); *tá* (ef. *tár*, flt. *tær*, þgf. *tám*, ef. *tá*). — Orðið **nátt** eða **nótt** beygist þannig:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. / þf. | nátt, nótt | Flt. | nf. / þf. | nætr |
| | þgf. | nátt, nótt | | þgf. | náttum, nóttum |
| | ef. | nætr, náttar | | ef. | nátta (nótta). |

Athgr. Orðið *gás* heitir í nýísl. optast *gæs*, flt. *gæsir*, en sé fornu myndinni haldið, þá er flt. *gásir*, og beygist því eins og *sótt* (31. gr.), hvor myndin sem brúkuð er.

3. Þau orð, sem hafa **ú** í stofninum (eins og *mús*): *brún* (flt. *brýnn*), *lús* (flt. *lýss*).

Athgr. *brún* hefir nú bæði *brúnir* og *brýr* í flt. (sbr. *fjallabrún*, *augnabrún* — *fjallabrúnir*, *augnabrýr*) — nf.-*s*-ið (úr *r*) fellr nú niðr í flt. (*lýs*, *mýs*).

4. Þau orð, sem hafa **o** og **u** í stofninum: *hnot* (flt. *hnøtr, hnetr*), *stoð* (flt. *støðr, steðr*); *dyr(r)* (að eins í flt., þgf. *durum*, ef. *dura*).

Athgr. Orðið *hnot* hefir nú skipzt í tvær myndir, *hnot*, flt. *hnetr* eða *hnotir*, og *hneta*, flt. *hnetur*, eins og *tunga* (42. gr.). — *stoð* beygist nú eins og *sótt* (31. gr.); — *dyrr* beygist nú eins og í fornmálinu, nema að því leyti að hljóðvarpið helzt í öllum föllum, og nf.-*r*-ið fellr ætíð niðr (*dyr, dyrum, dyra*).

40. gr. Fáein orð, sem hafa **á** og **ú** í stofninum, beygjast að því leyti á annan veg en þau orð, er talin vóru í 39. gr., að þau hafa **-r** og *i*-hljóðvarp eigi að eins í nf. og þf. flt. heldr og í nf. og ef. eint.; þessi orð eru: *kýr*, *sýr* (gylta, kvennsvín) og *ær* og beygjast þau þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | kýr | sýr | ær |
| | þf. | kú | sú | á |
| | þgf. | kú | sú | á |
| | ef. | kýr | sýr | ær |
| Flt. | nf. þf. | kýr | sýr | ær |
| | þgf. | kúm (17. gr. b). | súm | ám |
| | ef. | kúa | súa | á. |

Athgr. *ær* hefir nú *áa* í ef. flt. (með grein. *ánna*).

41. gr. Frændsemisnöfnin *faðir, bróðir, móðir, dóttir, systir*, hafa eins og þau orð, er talin voru í 37.—40. gr., **-r** í flt. og *i*-hljóðvarp, sem einnig hefir komizt inn í þgf. og ef. Í eint endar nf. á **-ir**, hin föllin á **-ur**:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint | nf. | faðir | bróðir | móðir | dóttir | systir |
| | þf. þgf. ef. | föður | bróður | móður | dóttur | systur |
| Flt. | nf. þf. | feðr | brœðr | mœðr | dœtr | systr |
| | þgf. | feðrum | brœðrum | mœðrum | dœtrum | systrum |
| | ef. | feðra | brœðra | mœðra | dœtra | systra. |

Í flt.-myndunum *feðr* o. s. frv. hefir *r* fallið niðr samkv. 23. gr. — *faðir* og *bróðir* hafa einnig myndina *feðr* og *brœðr* í þgf. eint. — Í Eddukvæðunum er myndin *föðr* hin vanalega í staðinn fyrir *faðir*, þegar það stendr sem síðari hluti sam-

setningar (*alföðr*, *herjaföðr* o. s. frv,) og er þá í nf., þf., þgf. *föðr*, ef. *föðrs*).

Athgr. Nú hafa *faðir* og *bróðir* opt í daglegu tali í ef. *föðrs* og *bróðrs* (og ávalt með greininum *föðrsins*, *bróðrsins*). Öll þessi orð nema *faðir* eru og opt óbeygjanleg í daglegu tali: nf., þf., þgf., ef. eint.: *bróðir móðir*, *dóttir*, *systir*.

## B. Veika beygingin.

42. gr. a) Þessi beyging, sem er mjög einföld, grípr að eins yfir einn flokk, og í honum eru orð af öllum kynjum. Eptir honum beygjast kk.-orð, sem enda á -**i**, kvk.-orð, sem enda á -**a** (og nokkur á -**i**), og hvk.-orð, sem enda á -**a**. Öll eintalan endar á hljóðstaf og ef. flt. í kvk. og hvk. á *-na*. Sem dœmi má taka í kk. *bogi*, í kvk. *tunga*, í hvk. *auga:*

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | bogi | tunga | auga |
| | þf. þgf. ef. | boga | tungu | auga |
| Flt. | nf. | bogar | tungur | augu |
| | þf. | boga | tungur | augu |
| | þgf. | bogum | tungum | augum |
| | ef. | boga | tungna | augna |

b) Þau orð, sem hafa **a** í stofninum, taka *u*-hljóðvarpi, og breytist þá *a*-ið í **ö** (í afleiðsluendingum í **u**, 11. gr. a og b). Sem dœmi, er sýni þessa hljóðbreyting, má taka í kk. *hani*, *dómari*, í kvk. *gata*, í hvk. *hjarta:*

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | hani | dómari | gata | hjarta |
| | þf. þgf. ef. | hana | dómara | götu | hjarta |
| Flt. | nf. | hanar | dómarar | götur | hjörtu |
| | þf. | hana | dómara | götur | hjörtu |
| | þgf. | hönum | dómurum | götum | hjörtum |
| | ef. | hana | dómara | gatna | hjartna |

43. gr. Í þeim orðum, sem hafa langan hljóðstaf í stofninum, fellr stuttr hljóðstafr niðr, er hann fer næst á eptir hinum langa, 17. gr. b, t. d. í kk. *pái*, þf., þgf., ef. *pá* (f. **páa*); *lé* (f. **léi*), þf., þgf., ef. *ljá* (19. gr.); — í kvk. *umsjá*, þf., þgf., ef. *umsjá*; *trúa*, þf., þgf., ef. *trú*. — Orðið *frú* er óbeygilegt í eint. (flt. *frúr*).

Athgr. *lé* heitir í nýísl. nf. *ljár*, þf., þgf. *ljá*, ef. *ljás*, nf. flt. *ljáir*, þf. *ljái*, þgf. *ljáum*, ef. *ljáa*. — Kvk.-orð þau, er enda á *-sjá*, bœta nú *r* við í ef. eint., *umsjá*, ef. *umsjár*; *trúa* heitir nú *trú*, ef. *trúar*. — *frú* er nú í ef. *frúar* og *frúr*; þó er hinni fornu eignarfallsmynd haldið á undan eiginnöfnum (*frú Sigríðar*).

44. gr. Í þeim orðum, sem hafa **v** í stofninum, fellr þetta *v* niðr á undan *u* t. d. í kvk. *völva* (spákona), þf., þgf., ef. *völu*, nf. og þf. flt. *völur*; *Röskva* (eiginnafn), þf., þgf., ef. *Rösku*.

Athgr. Nú er *v* haldið annaðhvort í öllum föllum eða engu, og verðr þá ekkert *u*-hljóðvarp í nf. eint., t. d. *valva* og *vala*, þf. *völvu* og *völu* o. s. frv., flt. *völvur* og *völur*.

45. gr. Mörg orð, bæði kk. og kvk., hafa **j** í stofninum, sem í kk. fellr niðr á undan **i** í nf. eint., enn er haldið í öllum öðrum föllum, t. d. *höfðingi* (þf., þgf., ef. *höfðingja*, nf. flt. *höfðingjar*, þf. og ef. *höfðingja*, þgf. *höfðingjum*). Þannig beygist t. d. *aðili*, *bryti*, *einheri*, *guðsifi*, *kleggi*, *steði*, *vili*, og þau orð, er hafa endinguna *-byggi*, *-ingi*, *-nyti*, *-skeggi*, *-veri*, *-virki* (*-yrki*). — Í kvk.-orðunum fellr *j* niðr í ef. flt. eptir *g* og *k* (*kirkja*, ef. flt. *kirkna*); annars er *j* haldið og fellr þá *n* niðr (*gyðja* ef. flt. *gyðja*); þó kemr ef. flt. sjaldan fyrir af þessum orðum.

Athgr. Kk.-orð þau, sem hafa *j* í stofninum, halda nú þessu *j* í öllum föllum, nema í þeim orðum, þar sem *g* eða *k* fer næst á undan *j*; þau hafa **-i** í nf. eint., öll önnur hafa **-ji** (*steðji*, *vilji*, en *erfingi*, *einvirki*). Í nokkrum af þessum orðum hefir **j** algjörlega horfið, og hefir sú breyting orðið töluvert snemma (*aðili*, *bryti*, nf. flt. *aðilar*, *brytar* f. *aðiljar*, *brytjar*).

46. gr. Að því er snertir hvert kyn fyrir sig, skal þessa enn fremr getið:

a) Karlkyn. 1. Hluttaksorð nútíðar, sem endar á **-andi**, er opt brúkað sem nafnorð og beygist þá sem *hani* í eint., en í nf. og þf. flt. fær það **-r** með *i*-hljóðvarpi (eins og orðin í 37.—41. gr.). Hlutto. nút. af sögnunum *búa*, *fjá* (hata) og *frjá* (elska) eru orðin hrein og bein nafnorð, og beygjast þau

eins: *búandi* eða *bóndi, fjándi, frændi.* Sem dœmi má taka: *gefandi* og *búandi, bóndi:*

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | gefandi | búandi—bóndi |
| þf., þgf., | ef. | gefanda | búanda—bónda |
| Flt. | nf. þf. | gefendr | búendr—bœndr |
| | þgf. | geföndum (gefendum) | búöndum—bóndum (búendum—bœndum) |
| | ef. | gefanda | búanda—bónda. |

*frændi* er í flt. *frændr, fjándi* — *fjándr* hljóðvarpslaust.

Athgr. Nú halda öll slík hlutto. (og eins þau sem eru orðin hrein nafnorð) *i*-hljóðvarpinu í öllum föllum flt. (þgf. *gefendum, bœndum,* ef. *gefenda, bœnda*). — *fjándi* heitir í nýísl. *fjandi* (sbr. 16. gr.) flt. *fjendr* og *fjandar.*

2. Orðið *uxi, oxi* beygist í eint. eins og *bogi* (42. gr. a), en í flt. er það í nf. og þf. *yxn (øxn),* þgf. *yxnum (øxnum),* ef. *yxna (øxna).* — Orðin *herra* (flt. *herrar*) og *síra (séra,* án flt.) eru óbeygileg í eint. — Nokkur kk.-eiginnöfn enda á *-a* og beygjast þá sem *tunga,* t. d. *Sturla, Úrœkja,* ef. *Sturlu, Úrœkju.* — Nokkur orð, sem mest eru brúkuð í skáldskap, hafa bæði **-a** og **-na** (sem annars ekki kemr fyrir í kk.) í ef. flt. *(gumi,* ef. flt. *guma* og *gumna);* í mörgum slíkum orðum hefir *n* fœrzt frá ef. inn í öll föll flt. *(gumnar, skatnar* og *gumar, skatar).* Sama er að segja um flt.-myndirnar *bragnar, flotnar, gotnar.*

Athgr. *uxi* beygist í nýísl. eins og *bogi* bæði í eint. og flt. (Hinni fornu eignarfallsmynd er þó haldið í eiginnöfnum, t. d. *Øxnadalr*).

b) Kvennkyn. 1. **kona** (f. **kvena,* 26. gr.) hefir í ef. flt. *kvenna,* en beygist að öðru leyti sem *tunga.*

2. Nokkur kvk.-orð, sem því nær öll tákna einhvern eiginlegleika, og næstum öll eru mynduð af lýsingarorðum með *i*-hljóðvarpi, ef hljóðstafrinn getr tekið hljóðvarpi, enda á **-i** í öllum föllum eint., en eru aldrei brúkuð í flt., t. d. nf., þf., þgf. og ef. *elli.* Þannig beygjast t. d.: *gleði, mildi, reiði, snilli, speki, œvi,* mörg sem enda á *-gi, -li, -ni, -semi, -vísi (kyngi, gjöfli* [örlæti], *beiðni, nytsemi, lævísi), kveðandi, kunnandi* og mörg fleiri; þannig beygjast og fáein eiginnöfn *(Mœri, Skáni, Þyri).*

Athgr. Stundum hafa nokkur af þessum orðum *s* í ef., einkum í samsetningum, t. d. *frændsemistala*, *úgleðisklæði* (sorgarbúningr).

c) Hvorugkyn. Eins og *auga* beygjast þau fáu hvk.-orð, sem enda á -a: *bjúga, eista, eyra, flagbrjóska, heima, hnoða, leika* (leikfang), *lunga* (mest í flt. *lungu*), *nýra, síma* (þráðr), *viðbeina* (líka *viðbein* eins og *orð*, 29. gr. a), *ökla* (síðar *ökli*, kk.).

Athgr. 1. (við 28.—46. gr.). Af mörgum orðum, einkum karlkendum, má finna bæði sterka og veika mynd, sem er brúkuð jöfnum höndum, og er þá sterka myndin því nær ávalt eldri og upprunalegri, t. d.: *hlutr* og *hluti, hólmr* og *hólmi, lík(h)amr* og *lík(h)ami, múgr* og *múgi, niðr* og *niði; andr, öndurr* og *andri* (flt. *andrar* = skíði). Sérstaklega eru endingarnar *-ingr* og *-leikr* brúkaðar jöfnum höndum og *-ingi* og *-leiki: leysingr* og *leysingi, sannleikr* og *sannleiki* o. s. frv. Þessi tvímyndan nær og til eiginnafna: *Björn* og *Bjarni, Örn* og *Arni, Þórhallr* og *Þórhalli* o. s. frv. — Fáein kvennkend orð hafa og bæði sterka og veika mynd: *rós* og *rósa, sál* og *sála, sin* og *sina.* — Af hvorugkendum orðum má nefna: *viðbein* og *viðbeina.* — Stundum hafa tveir orðstofnar verið brúkaðir jöfnum höndum frá elztu tímum, og það í öllum föllum (*sinn, systkin* og *sinni, systkini*).

Athgr. 2. Af nokkrum orðum má finna fleirkynja myndir, sem standa jafnhliða: *limr* (= grein) kk., flt. *limar* kvk., *lim* (= safn af greinum) hvk., *gísl* kk., flt. *gíslar* eða *gíslir* kvk.; *iðrar* (flt.) kvk., *iðr* (flt.) hvk.; *dyrr* (flt.) kvk. og hvk., *ben, eng,* kvk. og *ben, engi,* hvk. Enn fremr má jafnhliða hinum hvorugkendu myndum *síma, ökla* finna hinar karlkendu myndir *sími, ökli.* — Þess skal og getið, að ýms hvorugkend nafnorð geta orðið kvennkend, er þau eru brúkuð sem eiginnöfn, t. d. í fleirtöluorðunum: *Holtar, Torgar, Túnir (Sigtúnir), Grenjar, Nesjar,* þótt orðin *holt, torg, tún, gren, nes* sé ávalt hvk. í eint. — Þess hafa verið talin nokkur dœmi í beygingarfrœðinni, að kynferði orða hefir í núverandi máli opt tekið breytingum frá því, er var í fornmálinu (sbr. 38.—46. gr.). Hér við má enn fremr bœta, að hin fornu kk.-orð: *þorn, blómstr, hrúðr, hungr, klungr, skriðr* (ef. *þorns, blómstrs, hrúðrs, hungrs, klungrs, skriðar*) eru nú orðin hvk. (ef. *þorns, blómstrs,* o. s. frv., *skriðs); hið forna kk.-orð *þurðr* (ef. *þurðar*) hefir nú myndina *þurð* og er kvk. — Fleirtöluorðið *órar,* sem í fornmálinu var kvk., er nú orðið kk. — Kvk.-orðið *tál* (ef. og nf. flt. *tálar*)

er nú hvk. í eint. (ef. *táls*), en í flt. er það kvk. sem í fornmálinu (*tálar*).

---

## Lýsingarorð.

47. gr. Eins og sýnt hefir verið hér að framan, hafa nafnorð í íslenzku *annaðhvort* sterka *eða* veika beygingu; öðru máli er að gegna með lýsingarorðin; sérhvert þeirra getr vanalega haft *bæði sterka og veika* beygingu. Sterka beygingin er brúkuð, þegar lýsingarorðið stendr *greinislaust* (óákveðið: *ríkr maðr)*, en hin veika, þegar það er *með greininum* (ákveðið: *inn* eða *hinn ríki maðr).*

### A. Sterka (óákveðna) beygingin.

48. gr. Þau lýsingarorð, er beygjast eptir þessari beygingu, fá í mörgum föllum hina sömu mynd og nafnorð þau, er beygjast eptir sterku beygingunni.

Í þeim, sem hafa **a** í stofninum, breytist það með *u*-hljóðvarpi í **ö**; þetta verðr alstaðar í þgf. flt., auk þess í nf. eint. í kvk., þgf. eint. í kk. og hvk., og enn fremr í nf. og þf. flt. í hvk., sem ávalt hefir hina sömu mynd og nf. eint. í kvk. Sem dœmi má taka *sjúkr og spakr:*

| | | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | sjúkr | sjúk | sjúkt | spakr | spök | spakt |
| | þf. | sjúkan | sjúka | sjúkt | spakan | spaka | spakt |
| | þgf. | sjúkum | sjúkri | sjúku | spökum | spakri | spöku |
| | ef. | sjúks | sjúkrar | sjúks | spaks | spakrar | spaks |
| Flt. | nf. | sjúkir | sjúkar | sjúk | spakir | spakar | spök |
| | þf. | sjúka | sjúkar | sjúk | spaka | spakar | spök |
| | þgf. | | sjúkum | | | spökum | |
| | ef. | | sjúkra | | | spakra | |

Í afleiðsluendingum breytist **a** með *u*-hljóðvarpi í **u**, sem svo aptr breytir undanfarandi *a* í **ö** (11. gr. b), t. d. *gamall,*

kvk. *gömul; kallaðr*, kvk. *kölluð*. — Við myndun hvk.'s í. eint. verðr að fara eptir reglum þeim, er taldar vóru í 21. gr. a, 1—2 og 23. gr., t. d. *breiðr*, kvk. *breið*, hvk. *breitt; góðr*, kvk. *góð*, hvk. *gótt* (sem snemma styttist og verðr *gott); harðr*, kvk. *hörð*, hvk. *hart; fastr*, kvk. *föst*, hvk. *fast; heiðinn*, kvk. *heiðin*, hvk. *heiðit*.

49. gr. Þær breytingar, sem verða samkvæmt reglum hljóðfræðinnar og getið er um við nafnorðin (33. gr.), verða einnig í beygingu lýsingarorða, þannig:

a) Í þeim lýsingarorðum, er enda á einföldu -n, -r eða -s með undanfarandi samhljóðanda, fellr r niðr í nf. eint. í kk., og í þeim, sem enda á -r og -s, einnig í öðrum föllum, þar sem endingin byrjar með *r* (þgf. og ef. eint í kvk.; ef. flt.). Þau orð, sem enda á -s, geta heldr ekki bœtt *s* við í ef. eint. í kk. og hvk., t. d. *jafn, fagr, frjáls*, í ef. eint. *jafns, jafnrar; fagrs, fagrar; frjáls, frjálsar* (seinna *frjálsrar)*. (Hins vegar *all-r, þunn-r*, ef. *alls, allrar;* en *þurr, hvass*, ef. *þurrs, þurrar, hvass, hvassar* (seinna *hvassrar)* samkv. 23. gr. og 24. gr. a, 3.).

b) Í þeim lýsingarorðum, sem enda á -l, -n og -s með undanfarandi löngum hljóðstaf, tillíkist **r** hinu undanfarandi **l, n, s** og verðr úr **ll, nn, ss**, t. d. *heill, vænn, víss*, ef. eint. *heils, heillar; væns, vænnar; víss, víssar* (seinna *vísrar*).

c) Í tvíkvæðum lýsingarorðum, sem mynduð eru með afleiðsluendingum á **l** og **n** með undanfarandi hljóðstaf, tillíkist *r* einnig undanfarandi **l, n** og verðr úr **ll, nn**, og fellr þá hljóðstafrinn niðr á undan þeim beygingarendingum, er byrja á hljóðstaf. Í orðunum *lítill* og *mikill* og í þeim orðum, sem enda á **-inn**, endar nf. og þf. eint. í hvk. á **-it** og þf. eint. í kk. á **-inn**. Sem dœmi má taka *gamall* og *heiðinn:*

| | | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | gamall | gömul | gamalt | heiðinn | heiðin | heiðit |
| | þf. | gamlan | gamla | gamalt | heiðinn | heiðna | heiðit |
| | þgf. | gömlum | gamalli | gömlu | heiðnum | heiðinni | heiðnu |
| | ef. | gamals | gamallar | gamals | heiðins | heiðinnar | heiðins |
| Flt. | nf. | gamlir | gamlar | gömul | heiðnir | heiðnar | heiðin |
| | þf. | gamla | gamlar | gömul | heiðna | heiðnar | heiðin |
| | þgf. | | gömlum | | | heiðnum | |
| | ef. | | gamalla | | | heiðinna | |

Athgr. Nú styttist í í orðinu *lítill* í **i** í hinum samandregnu myndum (*litlir* f. *litlir* 16. gr. athgr.); sú stytting átti sér aldrei stað í fornmálinu.

Enn fremr fellr og hljóðstafr opt niðr í lýsingarorðum

þeim, er enda á **-igr** og **-ugr**, t. d.; *auðigr*, þf. eint. *auðgan, auðga, auðigt*; nf. flt. *auðgir, auðgar, auðig* o. s. frv. — Orðin *heilagr* og *ýmiss* eru og ýmist samandregin eða ósamandregin og styttist þá *ei* ávalt og *ý* stundum í *e* og *y* í hinum samandregnu myndum.

Samdráttr á sér einnig stað í hlutto. fort., er hafa endinguna **-iðr**, af veikum sögnum, er stofn þeirra endar á **ja** og þær hafa stutta rótarsamstöfu (87. gr.); en hinar ósamandregnu myndir eru naumast brúkaðar nema í nf. í kk. og kvk., nf. og þf. í hvk., ef. í kk. og hvk., og seinna fellr *i* einnig niðr í þessum myndum, t. d.: *telja*, hlutto. fort. nf. í kk. *taliðr*, kvk. *talið*, hvk. *talit* (seinna í kk. *talðr, taldr;* kvk. *tölð, töld;* hvk. *talt*), þf. *talðan* (*taldan*), *talða* (*talda*), *talit* (*talt*); nf. flt. *talðir* (*taldir*), *talðar* (*taldar*), *talið* (*tölð, töld*) o. s. frv. Í stað þeirra mynda, er hafa endinguna *-iðr*, má seinna, og í nýja málinu vanalega, finna *-inn: talinn*, kvk. *talin;* þó er *-inn* aldrei brúkað í hinum samandregnu myndum (flt. *taldir*, ekki *talnir*) og greinist af því frá hlutto. fort. af hinum sterku sögnum, sem beygist sem *heiðinn*.

d) Í þeim orðum, sem enda á langan hljóðstaf, tvöfaldast **t** í hvk; í þeim fellr og hljóðstafr beygingarendingarinnar niðr samkv. 17. gr. b, t. d. *blár* þf. eint. *blán, blá, blátt* o. s. frv.

Athgr. Þessi úrfelling verðr ekki í núverandi máli.—Þess ber enn fremr að gæta, að í þessum lýsingarorðum tvöfaldast *r* nú í þgf. og ef. eint. í í kvk. og ef. flt. í öllum kynjum (*blárri, blárrar, blárra*), sem vanal. var einfalt í fornmálinu.

50. gr. Í nokkrum lýsingarorðum, sem hafa **v** eða **j** í stofninum, falla þessir stafir burt samkv. 24. gr. c—d, t. d.: *fölr, miðr:*

| | | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | fölr | föl | fölt | miðr | mið | mitt |
| | þf. | fölvan | fölva | fölt | miðjan | miðja | mitt |
| | þgf. | fölum | fölri | fölu | miðjum | miðri | miðju |
| | ef. | föls | fölrar | föls | miðs | miðrar | miðs |
| Flt. | nf. | fölvir | fölvar | föl | miðir | miðjar | mið |
| | þf. | fölva | fölvar | föl | miðja | miðjar | mið |
| | þgf. | | fölum | | | miðjum | |
| | ef. | | fölra | | | miðra | |

Eins og *miðr* beygist og *nýr*.

Athgr. Nú fellr **v** opt niðr í öllum föllum. Sama er að segja um **j**; í mörgum orðum, sem í fornmálinu beygðust upphaflega eins og *miðr*, kemr

það aldrei fram (*frægr, sterkr, -tækr [fátækr],* þf. *frægan, sterkan, -tækan* fyrir *frægjan, sterkjan, -tækjan*).

## B. Veika (ákveðna) beygingin.

51. gr. Beyging lýsingarorða með greininum eða í hinni ákveðnu mynd er mjög einföld; í eint. beygjast þau eins og nafnorð þau, er beygjast eptir veiku beygingunni (42. gr.), en í flt. enda þau á -u, í nf., þf. og ef. og í þgf. á -um:

| | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. nf. | sjúki | sjúka | sjúka | spaki | spaka | spaka |
| þf. | sjúka | sjúku | sjúka | spaka | spöku | spaka |
| þgf. | sjúka | sjúku | sjúka | spaka | spöku | spaka |
| ef. | sjúka | sjúku | sjúka | spaka | spöku | spaka |
| Flt. nf. | sjúku | | | spöku | | |
| þf. | sjúku | | | spöku | | |
| þgf. | sjúkum | | | spökum | | |
| ef. | sjúku | | | spöku | | |

Reglur þær, er taldar vóru í 49. gr. c—d og 50. gr., gilda einnig fyrir hina ákveðnu mynd: nf. eint. *gamli, gamla; heiðni, heiðna; litli, -a; auðgi, -a; blái, blá;* þf., þgf. og ef. *blá;* — *fölvi, fölva* (þf., þgf. og ef. í kvk. *fölu); nýi, nýja (miðr* er ekki brúkað í hinni ákveðnu mynd og sama er að segja um *allr).*

Athgr. Nú endar öll flt. á -u, eins í þgf.

52. gr. Allmörg lýsingarorð, helzt samsett, beygjast eptir hinni veiku beygingu, hvort sem þýðing þeirra er ákveðin eða óákveðin; þessi orð enda á -i eða (seinna) á -a í nf. eint. í kk., en á -a í öllum öðrum föllum, nema þgf. flt., sem endar á -um, t. d.: nf. eint., í kk. *jafnaldri (-aldra),* kvk. og hvk. *jafnaldra;* nf., þf., ef. flt. *jafnaldra,* þgf. *jafnöldrum.* Þannig beygjast og *andvani, fulltíði, samfeðri, sammæðri, ørviti, dumbi* (mállaus), *lami, brúnvölvi* (alvarlegr), *einteiti* (mjög glaðr), *eintómi* (annalaus), *algangsi* (algengr), *hugsi* (hugsandi), *hvimsi* (hvumsa), *ofrölvi* (mjög drukkinn) og mörg fleiri.

## C. Stigbreyting lýsingarorða.

53. gr. **Miðstig** og **yfirstig** lýsingarorða myndast annaðhvort með því að bœta við endingunni **-ri** og **-str**, eða **-ari** og **-astr** við meginhlutann; þegar fyrri endingin er höfð, verðr *i*-hljóðvarp, ef hljóðstafr meginhlutans getr tekið því, t. d.:

a) **-ri** og **-str**:

| frumstig | miðstig | yfirstig |
|---|---|---|
| langr | lengri | lengstr |
| lágr | lægri | lægstr |
| stórr | stœrri | stœrstr |
| ungr | yngri | yngstr |

b) **-ari** og **-astr** — þá endingu fá flest lýsingarorð:

| | | |
|---|---|---|
| spakr | spakari | spakastr |

Nokkur orð hafa bæði endingarnar **-ri**, **-str** og **-ari**, **-astr** í miðstigi og yfirstigi, t. d.: *djúpr, dýrr,* — *dýpri* og *djúpari, dýrri* og *dýrari,* — *dýpstr* og *djúpastr, dýrstr* og *dýrastr.* Sum hafa **-ri** í miðstigi og **-astr** í yfirstigi, t. d.: *makligr, vegligr,* — *makligri, vegligri,* — *makligastr, vegligastr.*

54. gr. Reglur þær, er taldar vóru í 49.—50. gr. við beyging lýsingarorða, gilda einnig við stigbreyting þeirra, t. d.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| a) | fagr | fegri (f. *fegrri) | fegrstr |
| b) | heill | heilli (f. *heilri) | heilastr |
| c) | vænn | vænni (f. *vænri) | vænstr (vænastr) |
| d) | smár | smæri | smæstr |
| e) | röskr | röskvari | röskvastr |
| f) | nýr | nýri | nýjastr |

Athgr. Nú tvöfaldast r ætíð í miðstigi eptir langan hljóðstaf (*smærri, nýrri*). — Í þeim lýsingarorðum, sem hafa *v* og *j* í stofninum fellr *v* og *j* seinna vanalega niðr í miðstigi og yfirstigi (*röskari, röskastr; ríkari, ríkastr*). — *miðr* er að eins haft í frumstigi.

55. gr. Í nokkrum lýsingarorðum er miðstig og yfirstig myndað af öðrum stofni en þeim, er kemr fram í frumstigi:

| | | |
|---|---|---|
| gamall | ellri (eldri) | ellstr, ellztr |
| góðr | betri | beztr |
| illr, vándr | verri | verstr |
| margr | fleiri | flestr |
| lítill | minni | min(n)str |
| mikill | meiri | mestr |

56. gr. Eigi allsjaldan er miðstig myndað af atviksorði eða forsetningu, og vantar þá frumstig, t. d.:

| | | |
|---|---|---|
| (norðr) | *nyrðri, nørðri (norða[r]ri)* | *nyrztr, nørztr (norðastr)* |
| (suðr) | *syðri* | *synnstr (syðstr)* |
| (austr) | *eystri* | *austastr* |
| (vestr) | *vestri (vestari)* | *vestastr* |
| (fram) | *fremri (frama[r]ri)* | *fremstr (framastr)* |
| (aptr) | *eptri (aptari)* | *epztr, aptastr* |
| (inn) | *innri (iðri)* | *innstr* |
| (út) | *ýtri, ytri* | *ýztr, yztr* |
| (niðr) | *neðri* | *neðstr, neztr* |
| (of) | *øfri, efri* | *øfstr, efstr* |
| (fyrir) | *fyrri* | *fyrstr* |
| (síð) | *síða(r)ri (síðri)* | *síðastr (síðarstr)* |
| (heldr) | *heldri* | *helztr* |
| (sjaldan) | *sjaldnari* | *sjaldnastr* |
| (fjarri) | *firri, firnari* | *firstr* |
| (ná-, ísamsetn.) | *næ(r)ri* | *næstr* |
| — | *hindri* (síðari) | *hinztr (innstr)* |
| — | *æðri* | *æðstr (æztr)* |
| — | *hægri* | — |
| — | *vinstri* | — |

57. gr. Miðstig beygist ætíð eptir hinni veiku beygingu eins og hin ákveðna mynd lýsingarorða (51. gr.); þó er sá munr á, að kvk. beygist eins og *elli* (46. gr. b, 2) og að nf., þf. og ef. flt. endar á -i, t. d.:

| | | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | spakari | spakari | spakara |
| | þf. } | | | |
| | þgf. } | spakara | spakari | spakara |
| | ef. } | | | |
| Flt. | nf. } | spakari | | |
| | þf. } | | | |

| | | |
|---|---|---|
| Flt. | þgf. | spökurum |
| | ef. | spakari |

Eins og miðstig beygist og hluttaksorð nútíðar, þegar það er brúkað sem lýsingarorð (sbr. 46. gr. a, 1).

**Athgr. Nú hefir hlutto. nút. -i í öllum föllum eint. og flt.; sama er að segja um miðstig lýsingarorða, nema hvk. eint. hefir *a* í öllum föllum.**

58. gr. Yfirstig beygist eptir sterku beygingunni (48. gr.), þegar það er brúkað sem óákveðið (kk. *spakastr*, kvk. *spökust*, hvk. *spakast*; kk. *dýpstr*, kvk. *dýpst*, hvk. *dýpst* o. s. frv.), en eptir veiku beygingunni (51. gr.), þegar það er haft ákveðið (kk. *spakasti*, kvk. og hvk. *spakasta* o. s. frv.).

## Fornöfn.

59. gr. Hin persónulegu fornöfn eru:

| | | 1. persóna | 2. persóna | 3. persóna kk. | 3. persóna kvk. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | ek | þú | hann | hón (hon) |
| | þf. | mik | þik | hann | hana |
| | þgf. | mér | þér | hánum, honum | henni |
| | ef. | mín | þín | hans | hennar |
| Tvít. | nf. | vit | it, þit | | |
| | þf. þgf. | okkr | ykkr | | |
| | ef. | okkar | ykkar | | |
| Flt. | nf. | vér | ér, þér | | |
| | þf. þgf. | oss | yðr | | |
| | ef. | vár | yðvar, yðar | | |

Sem fornafn 3. pers. í hvk. eint. og flt. í öllum kynjum er brúkað hvk. og flt. af vísifornafninu *sá* (62. gr.).

**Athgr. Nú eru þessar myndir frábrugðnar: 1. pers. nf. *ég*, þf. *mig*, nf. tvít. *við*; ef. flt. *vor*, 2. pers. þf. *þig*; nf. tvít. *þið*; 3. pers. nf. í kvk. *hún*. — Fleirtölumyndirnar eru nú horfnar úr daglegu máli og er nú tvítalan brúkuð, hvort sem talað er um tvo eða fleiri, nema þegar menn eru þéraðir og flt. þannig brúkuð um einn mann. Þó er flt.-myndunum optast**

haldið í ritmáli. Hinar styttri myndir *it* og *ér* eru algjörlega horfnar úr málinu.

60. gr. Hið aptrbeygilega fornafn er eins í öllum kynjum og tölum og beygist þannig: þf. *sik*, þgf. *sér*, ef. *sín*.

Athgr. Nú er þf. *sig*.

61. gr. Eignarfornöfnin eru *mínn, þínn, sínn; okkarr, ykkarr, várr (órr), yðvarr* eða *yðarr*. Þau beygjast eins og hin óákveðna mynd lýsingarorða að öðru leyti en því, að nt í hvk. af *mínn, þínn, sínn* verðr tt; enn fremr enda þau öll á -n í þf. eint. í kk. í staðinn fyrir -an, og í *okkarr, ykkarr, yð(v)arr* fellr *a* niðr á undan þeim beygingarendingum, sem byrja á hljóðstaf. Í *mínn, þínn, sínn* hefir *í* snemma styzt á undan *nn* og *tt* og orðið *i*, t. d. *minn, mín, mitt*. Sem dœmi má taka.:

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | mínn | mín | mítt | okkarr | okkur | okkart(okkat) |
| | þf. | mínn | mína | mítt | okkarn | okkra | okkart(okkat) |
| | þgf. | mínum | mínni | mínu | okkrum | okkarri | okkru |
| | ef. | míns | mínnar | míns | okkars | okkarrar | okkars |
| Flt. | nf. | mínir | mínar | mín | okkrir | okkrar | okkur |
| | þf. | mína | mínar | mín | okkra | okkrar | okkur |
| | þgf. | | mínum | | | okkrum | |
| | ef. | | mínna | | | okkarra | |

Athgr. Nú eru eignarfornöfnin eiginlega ekki nema 3, *minn, þinn, sinn;* hin eru aldrei brúkuð í nútíðarmáli, nema ef vera skyldi *várr* (sem nú heitir *vor)*, sem er eigi allsjaldan brúkað í ritmáli. — Í stað þessara eignarfornafna eru nú brúkaðar eignarfallsmyndir tvítölunnar af hinum persónulegu fornöfnum: *okkar, ykkar (yðar* þegar þérað er).

62. gr. Vísifornöfnin eru *sá, þessi (sjá), hinn.*

a) **sá** og **þessi (sjá)**, beygjast þannig:

| | | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | sá | sú | þat | þessi, sjá | þessi, sjá | þetta |
| | þf. | þann | þá | þat | þenna | þessa | þetta |

| | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| þgf. | þeim | þeir(r)i | því | þessum | þessi / þessar(r)i | þessu |
| ef. | þess | þeir(r)ar | þess | þessa | þessar / þessar(r)ar | þessa |
| Flt. nf. | þeir | þær | þau | þessir | þessar | þessi |
| þf. | þá | þær | þau | þessa | þessar | þessi |
| þgf. | | þeim | | | þessum | |
| ef. | | þeir(r)a | | | þessa, þessar(r)a | |

Í nf. eint. í kk. og kvk. er *sjá* opt (í hinum elztu ritum ávalt) brúkað í sömu þýðingu og *þessi*. Í sömu þýðingu og *þessum* og *þessu* eru eigi allsjaldan brúkaðar þgf.-myndirnar *þeima* og *þvísa*.

**Athgr.** Nú eru þessar breytingar á orðnar: nf. og þf. í hvk. af *sá* er nú í eint. *það* og í flt. *þaug;* þf. í kk. af *þessi* er *þennan;* — í þgf. og ef. eint. í kvk. og ef. flt. hefir *sá* nú tvöfalt *r* og útrýmdi það einnig í fornmálinu snemma hinu einfalda *r*, en *þessi* hefir nú í sömu föllum einfalt *r* (tvöfalt í fornmálinu). Myndirnar *sjá* (nf. í kk. og kvk.), *þessi*, *þessar* (þgf. og ef. í kvk.) og *þessa* (ef. flt.) eru nú úreltar.

b) **hinn** beygist eins og *minn* (61. gr.): nf. eint. kk. *hinn*, kvk. *hin*, hvk. *hitt* o. s. frv. — Þegar þetta orð er brúkað sem ákveðinn **greinir** á undan lýsingarorðum, hefir það myndirnar **enn** (elzt), **inn**, **hinn**, kvk. *en*, *in*, *hin*, hvk. *et*, *it*, *hit* (með einföldu *t*). Þegar það er brúkað sem ákveðinn greinir við nafnorð, hefir það myndina **enn** (eldri) eða **inn** og er þá skeytt aptan við nafnorðið og beygjast þá bæði orðin reglulega. Þó fellr *i* niðr í greininum, þegar nafnorðið endar á **-a**, **-i**, **-u** og enn fremr í flt., þegar það endar á **r**; í sjálfum nafnorðunum fellr **m** niðr í þgf. flt., sem þá endar á **-u** og fellr **i** eins niðr úr greininum, þegar hann er skeyttr aptan við það. Sem dœmi má taka, eptir sterku beygingunni í kk. *úlfr*, kvk. *laug*, hvk. *orð* (29. gr.), eptir veiku beygingunni í kk. *bogi*, kvk. *tunga*, hvk. *auga* (42. gr.):

| | | | |
|---|---|---|---|
| Eint. nf. | úlfr-inn | laug-in | orð-it |
| þf. | úlf-inn | laug-ina | orð-it |
| þgf. | úlfi-num | laugu-nni, laug-inni | orði-nu |
| ef. | úlfs-ins | laugar-innar | orðs-ins |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Flt. | nf. | úlfar-nir | laugar-nar | orð-in |
| | þf. | úlfa-na | laugar-nar | orð-in |
| | þgf. | úlfu-num | laugu-num | orðu-num |
| | ef. | úlfa-nna | lauga-nna | orða-nna |
| Eint. | nf. | bogi-nn | tunga-n | auga-t |
| | þf. | boga-nn | tungu-na | auga-t |
| | þgf. | boga-num | tungu-nni | auga-nu |
| | ef. | boga-ns | tungu-nnar | auga-ns |
| Flt. | nf. | bogar-nir | tungur-nar | augu-n |
| | þf. | boga-na | tungur-nar | augu-n |
| | þgf. | bogu-num | tungu-num | augu-num |
| | ef. | boga-nna | tungna-nna | augna-nna |

**i** getr þó stundum fallið úr greininum þótt öðruvísi sé ástatt, en talið hefir verið hér að framan; þannig er það algengt í þgf. eint. í kk. í þeim orðum, sem vanta endinguna *i: dal-num* (sj. *dal-inum), sal-num.* — Í þf. eint. í kvk. má einnig finna *sól-na* og *sól-ina* jöfnum höndum, o. s. frv. Í þeim orðum, er enda á langan hljóðstaf fellr **i** vanalega niðr í hinum tvíkvæðu myndum greinisins, t. d.: *á-in, ey-in, tré-it, tré-in,* en *á-na, á-nni, ey-na, tré-nu* o. s. frv. — Orðið *maðr* hefir í flt., þegar greinirinn er skeyttr aptan við það, bæði *menn-inir* og (seinna) *menn-irnir.*

Athgr. 1. Þegar orðið *hinn* er brúkað sem vísifornafn, hefir það nú í hvk. *hitt,* eins og í fornmálinu, en þegar það er haft sem greinir á undan lýsingarorðum, hefir það *hið* í hvk., en það á sér nú að eins stað í ritmáli. Að öðru leyti er beygingin hin sama og í fornmálinu, nema **i** greinisins getr fallið heldr optar niðr, t. d. vanalega á eptir *é* í hvk. *tré-ð, hné-ð, fé-ð, tré-n* o. s. frv. — Eins og fyrir kemr í fornmálinu, er greinirinn nú stundum tvítekinn: *hin stærri konan.* — Í daglegu máli er *sá* nú haft í staðinn fyrir *hinn* sem ákveðinn greinir með lýsingarorðum.

Athgr. 2. Ákveðni greinirinn er ekki mjög gamall og finnst næstum aldrei í Sæm. Eddu. Enn yngri er hinn óákveðni greinir, og finnst hann mjög sjaldan í eldri ritum; seinna fóru menn að brúka hin óákveðnu fornöfn: *einn, ein(n)hver(r)* og *nökkurr* (*nokkur*) sem óákveðinn greini, og svo er enn.

63. gr. Tilvísunarfornöfnin eru **er** (eldra **es**) og **sem** (upphaflega samanburðarorð); þau eru óbeygileg; þegar myndin *es* er brúkuð, rennr hún opt saman við undanfarandi vísi-orð, t. d.: *sás, þanns, þars,* fyrir *sá es* o. s. frv.

64\. gr. Spurnarfornöfnin eru *hvat, hvárr, hverr, hvílíkr.*

a) **hvat** er að eins brúkað í eint. í hvk., og þgf. og ef. eint. í kk. sem nafnorð. Í stað þeirra mynda, sem vanta, eru brúkaðar myndir af *hverr.*

| | kk. | hvk. |
|---|---|---|
| Eint. nf. | — | hvat |
| þf. | — | hvat |
| þgf. | hveim | hví |
| ef. | hvess | hvess |

Myndin *hvers* (ef. af *hverr, hvert)* útrýmdi snemma ef.-myndinni *hvess.*

b) **hvárr** (fyrir *hvaðarr)* beygist eins og *sjúkr* (48. gr.), **hverr** eins og *miðr* (50. gr.); þó er þf. eint. í kk. *hvárn, hvern* (sj. *hverjan).*

c) **hvílíkr** beygist reglulega sem *sjúkr* (48. gr.). Til þess svarar vísifornafnið *þvílíkr* eða *slíkr.*

Athgr. *hvat* hefir nú myndina *hvað* og er að eins brúkað í nf. og þf. hvk. í eint. og er nafnorð. — Í ritmáli er þó venjulega haft þgf. *hví,* en í daglegu tali er í stað þess brúkað *því.* — *hvárr* og *hverr* heita nú *hvor* og *hver.* — Í daglegu tali eru þessi tvö orð vanalega runnin saman í eitt orð, sem heitir *hvur.* — Af nafnorðinu *hvað* hefir nú myndazt nýtt spurnarfornafn **hvaða**; það er brúkað sem lýsingarorð og er óbeygilegt.

65\. gr. Óákveðin fornöfn eru: a) *einn, einnhverr, nökkurr;* b) *hvatvetna, hvatki;* c) *hvárgi, hvárigr; hvergi, hverigr;* d) *annarr, annarrhvárr, annarrhverr, annarrtveggja, hvárrtveggja, báðir;* e) *engi, neinn, manngi* (= enginn), *vættki* (ekkert). Þessi orð beygjast sem hér segir:

a) 1. **einn** beygist sem *mínn* (61. gr.).

2\. **einnhverr** (eða *einhverr*), kvk. *einhver,* hvk. *eitthvert,* er samsett af *einn* og *hverr* (64. gr. b); að undanskildu nf. eint. og þf. eint. í kk. og hvk. beygist vanalega að eins seinni hlutinn *hverr,* en fyrri hlutinn *ein* helzt óbreyttur (þgf. *einhverjum, einhverri, einhverju*); á hinu eldra stigi fornmálsins beygist *einn* vanalega líka (þgf. *einumhverjum* o. s. frv.); sem nafnorð er brúkað **eitthvat,** en þó að eins í nf. og þf. eint. í

hvk. — *sérhverr* er samsett af *sér* og *hverr* og má jafnvel skrifa það í tveimr orðum (flt. *sér hverir*, *sér hverjar* o. s. frv.).

3. **nökkurr**, kvk. *nökkur*, hvk. *nökkut*; þf. *nökkurn*, *nökkura*, *nökkut*, beygist að öðru leyti sem óákveðið lýsingarorð. Jafnframt myndinni *nökkurr* finnast einnig hinar eldri myndir *nakkvarr*, *nekkverr* (*nökkvarr*, *nøkkverr* og fleiri), sem beygjast eins og *hvárr* og *hverr*.

Athgr. *einnhverr* hefir nú myndina *einhver* og *ein-* óbreytt í öllum föllum, nema nf. og þf. eint. í hvk. (*eitthvert*); — *eitthvat* heitir nú *eitthvað*. — *nökkurr* heitir nú *nokkur* og beygist sem í fornmálinu að öðru leyti en því, að það er nú vanalega samandregið í þeim föllum, er endingin hefst á hljóðstaf.

b) **hvatvetna** (einnig *hvetvetna*, *hotvetna*) og **hvatki** (myndað af *hvat* og neitunarorðinu *-gi*, 22. gr. 1) eru að eins brúkuð í eint. í hvk. (þgf. *hvívetna*; *hvígi*, ef. *hvesskis*).

c) **hvárgi** og **hvergi** (mynduð af *hvárr*, *hverr* og neitunarorðinu *-gi*) eru sjaldan brúkuð nema í eint. í kk. og hvk. og beygjast þannig:

| | | kk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Eint. | nf. | hvárgi | hvártki (hvárki) |
| | þf. | hvárngi, hvárngan | hvártki (hvárki) |
| | þgf. | hvárungi | hvárugi |
| | ef. | hvárskis (hvárkis) | hvárskis (hvárkis) |

*hvergi* hefir í þgf. eint. í kk. *hverjungi* (þgf. í hvk. finnst ekki), en beygist að öðru leyti eins. Í stað þeirra mynda, sem vanta (kvk. og flt.) eru brúkaðar myndir af orðinu **hvárigr**, (flt. *hvárigir*) og **hverigr**, sem beygjast eins og regluleg lýsingarorð.

Athgr. 1. Hvk. af *hvárgi* er optast brúkað sem samtenging: *hvártki* (vanalega *hvárki*) — *né*.

Athgr. 2. *hvárigr* heitir nú *hvorugr* (*hvurugr*), en beygist sem í fornmálinu. — *hvártki* heitir nú *hvorki* (*hvurki*), haft sem samtenging.

d) 1. **annarr** beygist eins og *okkarr* (61. gr.); þó fellr *r* ávalt niðr í þf. eint. í kk., og nf. og þf. eint. í hvk.; í því orði breytist og *nnr* í *ðr:*

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Eint. nf. | annarr | önnur | annat |
| þf. | annan | aðra | annat |
| þgf. | öðrum | annarri | öðru |
| ef. | annars | annarrar | annars |
| Flt. nf. | aðrir | aðrar | önnur |
| þf. | aðra | aðrar | önnur |
| þgf. | | öðrum | |
| ef. | | annarra | |

2. **annarrhvárr** og **annarrhverr** er samsett af *annarr* og *hvárr, hverr* (64. gr. b). Hvortveggju orðin beygjast (þgf. eint. í hvk. *öðru-hváru; öðru-hverju).*

3. **annarrtveggja** og **hvárrtveggja** eru samsett af *annarr, hvárr* og *tveggja* (ef. af *tveir,* 67. gr.) og tekr að eins fyrri hlutinn fallbreytingu, en *tveggja* helzt óbreytt. Jafnframt þessum myndum eru og brúkaðar myndirnar **annarrtveggi** og **hvárrtveggi** og beygist þá hvortveggi hlutrinn, *annarr* og *hvárr,* eptir hinni sterku beygingu, sem hér að framan, en *tveggi* eptir hinni veiku sem *nýi* (51. gr. niðrl.).

Athgr. Hvk. eint. af þessum fornöfnum er mjög opt brúkað sem samtenging: *annathvárt — eða* og *annattveggja — eða; hvárttveggja — ok.*

4. **báðir** beygist þannig:

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Flt. nf. | báðir | báðar | bæði |
| þf. | báða | báðar | bæði |
| þgf. | | báðum | |
| ef. | | beggja | |

Athgr. 1. Hvk. *bæði* er mest brúkað sem samtenging: *bæði — ok (enda).*

Athgr. (við d, 1.—4.). Í orðinu *annarr* er nú sú breyting á orðin, að *rr* í hinum ýmsu myndum er nú *r* (*annar, annari* o. s. frv.); — *á* hefir breyzt í *o* (*u*) á eptir *v* (*hvortveggja, hvurtveggja*) og *t* í *ð* í endingu á eptir hljóðstaf (*annað*).

e) 1. **engi** (myndað af *einn* og neitunarorðinu *-gi*) beygist vanalega þannig:

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Eint. nf. | engi (engr) | engi | (etki), ekki |
| þf. | engi, engan | enga | (etki), ekki |
| þgf. | (einungi), engum | engri | (einugi), engu |
| ef. | einskis, einkis<br>enskis, enkis | engrar | einskis, einkis<br>enskis, enkis |
| Flt. nf. | engir | engar | engi |
| þf. | enga | engar | engi |
| þgf. | engum | engum | engum |
| ef. | engra | engra | engra |

Allar þessar myndir, að undanskildum *engi*, *ekki* (*einungi* og *einugi)*, og *einskis (einkis, enskis, enkis)*, geta einnig haft *ø* í staðinn fyrir *e* (*øngan* o. s. frv.) og *v* á undan þeim endingum, sem byrja með *a* og *i* (*øngvan* o. s. frv.). Auk þessa er stundum brúkað í kvk. í eint. (nema nf.) og í flt. (nema nf. og þf. í hvk.) lýsingarorðið **einigr** sem svarar til *engi* á sama hátt og *hvárigr* til *hvárgi*.

Athgr. *engi* hefir nú myndina *enginn* í nf. eint. í kk. og *engin* í nf. eint. í kvk. og flt. í hvk. og *ekkert* í nf. og þf. eint. í hvk, en að öðru leyti er beygingin hin sama og í fornmálinu.

2. **neinn** (samandregið fyrir *ne* [fornt neitunarorð = ekki] *einn*) beygist sem *einn*.

3. **manngi** eða **mangi** (af *mannr* = *maðr* og *-gi*) er mest brúkað í skáldskap og að eins í eint. í kk. (þf. *manngi*, þgf. *mannigi*, ef. *mannskis)*. — **vættki** er að eins brúkað í eint. í hvk. (þgf. *vættugi*, ef. *vættugis*).

Athgr. (við 65. gr.). Enn eru nokkur orð, sem samkvæmt þýðingu sinni opt eru talin til óákveðinna fornafna, en eptir beygingunni eru ýmist nafnorð (*maðr*) eða lýsingarorð (*sjálfr*, *samr*, *allr*, *margr*, *fár*, *sumr*, *ýmiss* o. s. frv.).

---

# Töluorð.

| 66. gr. a) Frumtölur. | 66. gr. b) Raðartölur. |
| --- | --- |
| 1. einn | fyrstr, fyrsti |
| 2. tveir | annarr |
| 3. þrír | þriði |
| 4. fjórir | fjórði |
| 5. fimm | fim(m)ti |
| 6. sex | sétti |
| 7. sjau | sjaundi |
| 8. átta | átti (áttundi, -andi) |
| 9. níu | níundi |
| 10. tíu | tíundi |
| 11. ellifu | ellifti |
| 12. tólf | tólfti |
| 13. þrettán | þrettándi |
| 14. fjórtán (fjog(u)rtán) | fjórtándi (fjog(u)rtándi |
| 15. fim(m)tán | fim(m)tándi |
| 16. sextán | sextándi |
| 17. sjautján (sjaután) | sjautjándi (sjautándi) |
| 18. átján | átjándi |
| 19. nítján | nítjándi |
| 20. tuttugu (tvítján) | tuttugundi, -andi (tvítjándi) |
| 21. tuttugu ok einn (einn ok t.) | tuttugundi ok fyrsti eða einn (fyrsti eða einn ok t.) |
| 22. tuttugu ok tveir (tveir ok t.) o. s. frv. | tuttugundi ok annar (annarr ok t.) o. s. frv. |
| 30. þrír tigir (tugir) | þrítugundi, -andi |
| 40. fjórir tigir (tugir) | fertugundi, -andi |
| 50. fimm tigir (tugir) | fim(m)tugundi, -andi |
| 60. sex tigir (tugir) | sextugundi, -andi |
| 70. sjau tigir (tugir) | sjautugundi, -andi |
| 80. átta tigir (tugir) | áttatugundi, -andi |
| 90. níu tigir (tugir) | nítugundi, -andi |

100. tíu tigir (hundrað, sjá 68. gr.)
110. ellifu tigir (hundrað ok tíu)
120. hundrað (sjá 68. gr.)
200 (240). tvau hundruð

**1000 (1200). þúsund**
**2000 (2400). tvær þúsundir.**

Athgr. Nú heita tölurnar 7, 11 og 17: *sjö, ellefu* og *sautján(seytján)*.

67. gr. **Af frumtölunum** beygjast fjórar hinar fyrstu; um beygingu á *einn* er talað í 65. gr. a., 1. Hinar beygjast þannig:

| | kk. | kvk. | hvk. | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Flt. nf. | tveir | tvær | tvau | þrír | þrjár | þrjú |
| þf. | tvá | tvær | tvau | þrjá | þrjár | þrjú |
| þgf. | | tveimr, tveim | | | þrimr, þrim | |
| ef. | | tveggja | | | þriggja | |

| | kk. | kvk. | hvk. |
|---|---|---|---|
| Flt. nf. | fjórir | fjórar | fjogur (fjugur) |
| þf. | fjóra | fjórar | fjogur (fjugur) |
| þgf. | | fjórum | |
| ef. | | fjogurra (fjugurra) | |

Athgr. *tveir* hefir nú í þf. í kk. *tvo*, í nf. og þf. í hvk. *tvö*; *þrír* hefir nú í þgf. *þremr* og *þrem*, og *fjórir* í nf. og þf. flt. *fjögur* (*fjegur*) og í ef. *fjögra* (*fjögurra*).

68. gr. Frumtölurnar frá 5—20 beygjast ekki. Hins vegar eru tölurnar frá 30—90 myndaðar af nafnorðinu *tigr, tegr* (einnig *tugr, togr)* og beygjast því eins og það orð (36. gr. a) og tekr eptirfarandi nafnorð til sín í ef. *(þrír tigir kúa; með sex tigu manna)*. — Seinna runnu þessi tvö orð saman í eitt: *þrjátigi* o. s. fr., og loks varð *-tigi* að *-tíu* og sú mynd er nú hin almenna: *þrjátíu, fjörutíu, fim(m)tíu, sextíu, sjötíu, áttatíu, níutíu.* Þegar tölurnar *1, 2, 3, 4* eru brúkaðar í samsetningum, fá þær myndirnar: *ein-, tví- (tve-, tvö-, tvæ-), þrí- (þré-,þre), fer- (fjór-, fjöru-, fjeri-)*.—*hundrað* er nafnorð, hvk. (flt. *hundruð)*. Vanalega táknar *hundrað* í fornmálinu stórt hundrað, án þess nákvæmar sé ákveðið, ɔ: **120**, og er það einnig kallað *hundrað tólfrætt,* mótsett smátt hundrað ɔ: **100**, sem ýmist er kallað *hundrað tírætt* eða *tíu tigir* (þannig t. d. *hálft annat hundrað langra skipa,* ɔ: 120 + 60). — *þúsund* er nafnorð, kvk., og beygist sem *sótt* (31. gr.), flt. *þúsundir;* vanalega táknar það 10 stór hundruð (ɔ: **1200**).

Athgr. Allar frumtölurnar eru nú brúkaðar sem lýsingarorð, og eru þær óbeygilegar frá **5—90**; *hundrað* er nú brúkað ýmist sem lýsingarorð eða nafnorð og hefir það sem lýsingarorð ekki aðra beygingu en þá, að það hefir aðra mynd í flt. (*hundrað*, flt. *hundruð*). *þúsund* er nú bæði (vanalega í eint.) hvk. og kvk., og má brúka það sem lýsingarorð, þegar það er hvk., bæði í eint. og flt., og er þá óbeygilegt. Þegar það er kvk., er það haft sem nafnorð. — Að bæði *hundrað* og *þúsund* þó eru nafnorð lýsir sér í því, að þau taka til sín önnur lýsingarorð, sem einnig haldast óbreytt í öllum föllum (*tvö hundruð mönnum; mörg þúsund hestum*). Nú er og inn komið orðið *miljón*, en í fornmálinu var ekkert eitt orð yfir þá tölu, og hét hún þá *þúsund þúsunda*.

69. gr. Raðartölurnar, að undanskildum tveim hinum fyrstu, beygjast eptir hinni veiku beygingu eins og hin veika mynd lýsingarorða (*þriði* sem *nýi*, 51. gr. niðrl., kvk. og hvk. *þriðja*, flt. *þriðju* o. s. frv., hin önnur sem *sjúki*, 51. gr.). *fyrstr* beygist bæði eptir hinni sterku og veiku beygingu (*fyrsti)*, *annarr* að eins eptir hinni sterku (sjá 65. gr. d, 1).

Athgr. Nú hafa nöfn nokkurra talna fengið aðra mynd en í fornmálinu og eru þær þessar: 2. *annar;* 3. *þriðji* (*þriði*)*;* 6. *sjötti* (*sétti*)*;* 7. *sjöundi;* 8. *áttundi;* 11. *ellefti;* 17. *sautjándi* (*seytjándi*)*;* — enn fremr hafa raðartölurnar frá **20—90** breytt endingu sinni. Upprunalega var endingin *-tugundi* (*-tugandi*), seinna breyttist hún í *-tugti* (*tuttugti*, *þrítugti* o. s. frv.), og nú er hún *-tugasti* (*tuttugasti*, *þrítugasti* o. s. frv.). Af orðunum *hundrað* og *þúsund* vóru engar raðartölur myndaðar í fornmálinu, en nú eru raðartölur hafðar af þeim með sömu endingu og tugatölurnar (*hundraðasti*, *þúsundasti*).

70. gr. Af töluorðunum eru enn fremr mynduð nokkur lýsingarorð, nafnorð og atviksorð, og teljast því undir þau:

a) 1. Lýsingarorð, sem tákna aldr, lengd, dýpt eða hæð; eru þau mynduð fyrir tugatölurnar **20—70** af stofni einingarinnar með endingunni *-tugr*, en fyrir **(70)**, **80** til **100** og **120** með endingunni *-rœðr:*

| | |
|---|---|
| tvítugr | sjautugr, sjaurœðr |
| þrítugr | áttrœðr |
| fertugr | nírœðr |
| fimmtugr | tírœðr |
| sextugr | tólfrœðr |

Af þessum lýsingarorðum eru aptr mynduð ný lýsingarorð með því að bœta *hálf-* fyrir framan þau, sem táknar, að 5 skuli draga frá aðaltölunni (helzt um aldr og rúmatölu á

skipum: *hálffertugr*, 35 ára; *hálfþrítugt skip*, skip með 25 rúmum). — Af töluorðunum myndast og orðin *tvævetr* og *þrevetr*.

2. Deilitölur (lýsingarorð sem tákna skiptingu); þær eru *tvennir* (kvk. *tvennar*, hvk. *tvenn* og stundum *tvenni), þrennir, fernir;* tákna þær tölu á því, sem í sjálfu sér er tvöfalt eða margfalt; þó eru þær opt brúkaðar í alveg sömu þýðingu og frumtölurnar *tveir, þrír, fjórir.* Þessar tölur beygjast reglulega sem lýsingarorð, og eru að eins brúkaðar í flt., nema tvær hinar fyrstu, þær má brúka í eint. *tvennr* (kvk. *tvenn*, hvk. *tvent*) í merkingunni tvöfaldr, *þrennr* þrefaldr.

Athgr. Nú er og brúkuð talan *einir* auk hinna ofantöldu (*einir sokkar, tvennir vetlingar, þrennir skór, fernir prjónar*); *tvennir, þrennir* og *fernir* er nú og haft í eint., einkum í hvk.

3. Margföldunartölur. Þær eru myndaðar af stofni einingarinnar og endingunni *-faldr: einfaldr, tvífaldr* (nú *tvöfaldr*), *þrífaldr* (síðar *þrefaldr), ferfaldr* (nú einnig *fjórfaldr*), *fimmfaldr* o. s. frv.

b) Af töluorðunum eru og mynduð nafnorð, sem tákna fjölda: 1) kvennkynsorð með endingunni *-t, -d*, sem beygjast eins og *sótt* (31. gr.): *fimt, sjaund, níund, tíund, tylft, tvítugt, þrítugt* (sbr. a, 1); 2) kvk.-orð með endingunni *-ing*, sem beygjast eins og *laug* (29. gr.): *eining, tvenning, þrenning* (sbr. a, 2); 3) karlkynsorð með endingunni *-ungr*, sem beygjast eins og *úlfr* (29. gr.) og tákna nokkurn hluta heildarinnar: *þriðjungr, fjórðungr, fimtungr, séttungr* (nú *sjöttungr), sjaundungr, áttungr, tólftungr.* Auk þessa orðið *helmingr (helfningr)* eða *helfð* (nú *helft).*

c) Töluatviksorð. Þau eru: *tvisvar* eða *tysvar* og *þrysvar;* þó er einnig sagt *tveim* eða *tvisvar sinnum, þrim* eða *þrysvar sinnum,* og þannig eru hin önnur töluorð brúkuð í þgf. með nafnorðinu *sinn* (29. gr.) eða *sinni* (35. gr. c), t. d. *fjórum sinnum, tíu sinnum, fimm tigum sinna* o. s. frv. Hér til má og telja: *fyrsta, annat, þriðja, fjórða, fimta* o. s. frv. *sinn(i);* með því má og brúka greininn, *et þriðja* o. s. frv. *sinn(i);* enn fremr er sagt: *í annat sinn(i)* og *öðru sinni, eitt (eitthvert) sinn(i)* eða *einu (einhverju) sinni.*

---

## Sagnir.

71. gr. **Mynd** sagna í íslenzku er eiginlega ekki nema ein: gjörmynd.

Sigmyndin (eða *miðmyndin*) er sem sé ekkert annað en gjörmyndin, sem hið aptrbeygilega fornafn er runnið saman við, og þolmyndin er mynduð með samsetning á hlutto. fort. og hjálparsögninni *vera (verða).*

**Tíðirnar** eru að eins tvær: nútíð og þátíð; allar aðrar tíðir eru samsettar og myndaðar með hjálparsögnum.

**Hættirnir** eru: framsöguháttr, viðtengingarháttr og (í nútíð) boðháttr. Hér við bætist enn fremr nafnháttr nútíðar (fortíðar mjög sjaldan) og hluttaksorð nútíðar og fortíðar.

**Tölurnar** eru tvær, eintala og fleirtala, og er hin síðartalda einnig brúkuð í stað tvítölunnar, sem horfin er úr málinu.

72. gr. Sagnirnar skiptast í tvær beygingar, hina sterku og hina veiku. Munrinn kemr fram í þátíð, sem í sterku beygingunni er einkvæð og mynduð með hljóðskipti, en í hinni veiku fleirkvæð og mynduð með endingarviðbót.

Endingarnar eru hinar sömu í nútíð í báðum beygingum, en í þátíð skilr þær á, sem sjá má af yfirliti því, er hér fylgir:

Nútíð:

| | | framsh. | viðtengh. | boðh. | nafnh. |
|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | 1. | — | -a (seinna: -i) | | -a |
| | 2. | -r | -ir | — | |
| | 3. | -r | -i | | hlutto. |
| Flt. | 1. | -um | -im | -um | -andi (57. gr.) |
| | 2. | -ið (-it) | -ið (-it) | -ið (-it) | |
| | 3. | -a | -i | | |

## Þátíð:

| | sterk beyging: | | | veik beyging: | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | framsh. | viðtengh. | [nafnh. | framsh. | viðtengh. | [nafnh. |
| Eint. 1. | — | -a(-i) | -u] | -ða (-ði) | -ða(-ði) | -ðu] |
| 2. | -t | -ir | | -ðir | -ðir | |
| 3. | — | -i | hlutto. | -ði | -ði | |
| Flt. 1. | -um | -im | -inn (49.gr. | -ðum | -ðim | hlutto. |
| 2. | -uð(-ut) | -ið(-it) | c) | -ðuð(-ðut) | -ðið(-ðit) | -ðr |
| 3. | -u | -i | | -ðu | -ði | |

Athgr. 1. Í 1. pers. flt. er *-m* endingarinnar opt slept, þegar fornöfnin *vit* og *vér* fara rétt á eptir, t. d.: *tóku vit*, *tóku vér* í stað *tókum*. Í 2. pers. flt. er *-ð* endingarinnar vanalega, þegar fornöfnin *it* og *ér* fara á eptir, flutt yfir á þessi fornöfn (*tóku þit*, *tóku þér* í staðinn fyrir *tókuð it*, *tókuð ér*), svo að þessi fornöfn fengu seinna ávalt myndina *þit*, *þér*, og á undan þeim er þá *-ð* (*-t*) sagnarinnar vanalega slept. *-ð* getr og fallið niðr á undan öðrum orðum, sem byrja með *þ* og jafnvel optar (*drepi þá!*). — Í fornum handritum hefir 1. pers. eint. nút. í einstökum orðum stundum sömu mynd og 3. pers. (þannig opt: *ek er*, *hefir*, *segir* f. *em*, *hefi*, *segi*). Töluvert snemma má og finna þá breyting á 1. pers. eint. í viðtengh., að hún hefir endinguna *-i* í stað hinnar eldri *-a*; sama er að segja um *-ði* f. *-ða* í 1. pers. eint. í þát. í framsh. í hinni veiku beygingu. Aptr eru endingarnar *-um*, *-uð*, *-u* í viðtengh. f. *-im*, *-ið*, *-i* yngri. — Þegar fornafnið **ek** og neitunarviðskeytin *-a*, *-at*, *-t* renna saman við sögnina, verða stundum nokkrar breytingar: 1. pers. eint. endar í Sæm. Eddu opt á: **-i-g-a** í stað **a-k-a**, t. d.: *kalliga ek* (= *kalla-ek-a ek*), *gørðiga ek* (= *gørða-ek-a ek*), *ek vildigak* (= *ek vilda-ek-a ek*), í viðtengh. *ek bjargigak* (= *bjarga-ek-a-ek*), *ek stöðvigak*, *myndigak*. — Stundum verða og breytingar í öðrum persónum, þegar neituninni er hnýtt aptan við: *gára þú* (= *gáir-a-þú*); *þú, hann gørra* (= *gørir-a*); *at þú deilit* (= *deilir-a*), *at þú kveliat* (= *kvelir-a*). — Fornafnið **þú** rennr opt saman við undanfarandi sögn í 2. pers. eint., og fær það þá ýmsa mynd samkvæmt hinum vanalegu hljóðreglum (*-ðú*, *-dú*, *-tú*, *-ú*), og styttist þá *ú* vanalega í *u*: *seg-ðu*, *snú-ðu*, *brenn-du*, *sit-tu*, *haltu* (f. *halt-tu*), *sendu* (f. *send-du*).

Athgr. 2. Nú eru endingarnar hinar sömu, nema þessar: **Nútíð:** 2. pers. eint. í framsh. fær endinguna **-rð** í þeim sögnum, er annaðhvort ganga eptir sterku beygingunni eða eptir 2. flokki hinna veiku sagna og enda á langan hljóðstaf eða *r* og verður þá myndin ávalt einkvæð, t. d.: *berð* (af *bera*), *skerð*, *ferð* (af *fara*), *sverð* (af *sverja*), *slærð*, *hlærð*, *færð*,

*deyrð, snýrð; berð* (af *berja*), *smyrð, flýrð* o. s. frv. Þau er enda á *-s*, fá með sama hætti endinguna *-st*, t. d.: *lest, kýst*. — *ð* og *t* í þessum myndum eru eiginlega leifar af hinu viðskeytta fornafni *þú* (sbr. athgr. 1, niðrl.). 1. pers. eint. og flt. í viðtengh. **-i**, **-um**, (í stað *-a*, *-im*. **Þátíð:** 2. pers. eint. í framsh. hinna sterku sagna **-st** (í stað *-t*); 1. pers. eint. í viðtengh. **-i** (í stað *-a*) og 1., 2. og 3. pers. flt. í viðtengh. **-um**, **-uð**, **-u** (í stað *-im -ið -i*).

## A. Sterka beygingin.

73. gr. Frummyndirnar (kennimyndirnar), sem hinar aðrar myndir eru myndaðar af, eru: nútíð nafnháttar, 1. pers. eint. og flt. af þátíð framsöguháttar, og hluttaksorð fortíðar, t. d.:

*bera — ek bar, vér bárum — borinn.*

Af þessum frummyndum myndast svo hinar aðrar myndir sem hér segir:

a) Nútíð í framsh. í **eint.** myndast af stofni nafnháttar með *i*-hljóðvarpi, þegar hljóðstafrinn getr tekið hljóðvarpi *(taka—ek tek)*; 1. pers. er endingarlaus, en 2. og 3. pers. bœta við **-r** *(tekr)*, sem tillíkist undanfarandi **n** og **s**, svo úr verðr **nn** og **ss** (21. gr. b), t. d.: *skína, ek skín, þú, hann skínn* (f. **skínr)*; *lesa, ausa, ek les, eys, þú, hann less, eyss.* Stundum getr það og tillíkzt **l** og orðið úr **ll**, t. d.: *gala, stela, ek gel, stel, þú, hann gelr, stelr* eða *gell, stell.* Hins vegar fellr **r** alveg niðr eptir **rr** (23. gr.) og eptir þær samfellur samhljóðanda, sem getið var um í 24. gr. a, 3, t. d.: *þverra, ek, þú, hann þverr; vaxa, ek, þú, hann vex; fregna, ek, þú, hann fregn.* — Í nút. framsh. í **flt.** verðr ekkert *i*-hljóðvarp (nema í þeim sögnum, er enda á **-ja**); hún myndast með endingunum **-um** (sem hljóðverpir **a** í **ö**), **-ið** (**it**) og **-a**: *tökum, takið (-it), taka;* 3. pers. hefir ávalt sömu mynd og nafnháttr.

Athgr. Nú er sú breyting á orðin, að þegar 2. pers. í *eint.* í fornmálinu hefir endað á **r** eða **rr** og **ss** með undanfarandi hljóðstaf, þá bœtist nú **ð** við á eptir **r**, **rr** og **t** á eptir **ss**, og fellr þá annað *r*-ið og *s*-ið niðr (sjá 72. gr., athgr. 2). Þegar 1. pers. endar á **n**, bœtist engin ending við í 2. og 3. pers. og fær þá eintalan hina sömu mynd í öllum persónum *(ég, þú, hann skín)*. Þegar 1. pers. endar á **s** eða **r**, fær og 3. pers. sömu mynd *(ég, hann eys, les, sker, fer)*.

b) **Nútíð í viðtengh.** hefir í 1. pers. eint. sömu mynd og nafnháttr *(taka — ek taka,* seinna *taki)*; 2. og 3. pers. endar á -ir, -i; flt. á -im, -ið (-it), -i.

Athgr. Nú endar 1. pers. eint. ávalt á -i *(ég taki)* og 1. pers. flt. á -um *(tökum)*.

c) **Boðháttr nút.** hefir í 2. pers. eint. sömu mynd og nafnháttr, þegar endingin er af tekin *(tak)*; 1. og 2. pers. flt. hefir sömu mynd og 1. og 2. pers. nút. í **framsh.**

d) **Þátíð framsh.** hefir í 1. og 3. pers. eint. hina sömu mynd *(ek, hann tók)*; 2. pers. myndast með því að bœta -t við *(þú tókt)*. Á undan þessu t breytist t (tt) í z: *brjóta, ek braut, þú brauzt; láta, ek lét, þú lézt; binda, ek batt, þú bazt.* Hins vegar breytist ðt í fornmálinu í tt (21. gr. a, 1): *bjóða, ek bauð, þú bautt; ráða, ek réð, þú rétt; biðja, ek bað, þú batt.* Seinna fengu þó einnig þessar myndir zt *(brauzt, rézt, bazt)*.— Fortíð í framsh. í flt. endar á -um, uð (-ut), -u.

Athgr. 2. pers. eint. í þát. myndast nú ávalt með því að bœta -st við 1. pers.

e) (Athgr. við c og d). Í 1. og 3. pers. eint. fort. í framsh. og vanalega í 2. pers. eint. í boðhætti breytist í samstöfulok:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| nd í tt: | *binda* | boðh. *bitt* | þát. *batt* |
| ng - kk: | *ganga* | — *gakk* | — *gekk* |
| ld - lt: | *halda* | — *halt* | — *helt.* |

f) **Þátíð í viðtengh.** myndast af stofni fort. í framsh. í *flt.* með *i*-hljóðvarpi, þegar hljóðstafrinn getr tekið hljóðvarpi *(ek tók, vér tókum — ek tœka; ek batt, vér bundum — ek bynda).* Endingarnar eru hinar sömu og í nútíð í framsh. (sjá b).

Athgr. Nú hefir 1. pers. eint. ávalt endinguna *-i* *(tœki, byndi)* og 1. 2. og 3. pers. flt. -um, -uð, -u eins og flt. fort. í framsh. og er þá *j* skotið inn á undan endingunni á eptir *g* og *k* *(tœkjum, byndum)*.

74. gr. a) Í þeim sögnum, þar sem stofninn endar á v, fellr *v* niðr í beygingunni, nema á undan þeim endingum, sem byrja með a og i (þó fellr það og vanalega niðr á undan *-inn* í hluttaksorði fort.), t. d.: *höggva,* nút. *ek høgg, þú, hann*

*høggr, vér höggum, (þ)ér höggvið, þeir höggva*, hluttaksorð fort. *höggvinn; — syngva, søkkva*, fort. *söng, sökk*, hlutto. fort. *sunginn, sokkinn.*

b) Nokkrar sagnir styrkja í **nútíð** stofninn með **j**, sem þó fellr niðr í beygingunni, nema á undan þeim endingum, sem byrja með **a** og **u**, t. d.: *sitja*, nút. *ek sit, þú, hann sitr, vér sitjum, (þ)ér sitið, þeir sitja.*

Athgr. Nú helzt þetta **j** einnig á undan **i** (*sitja, sitjið, sitjum*).

**75. gr.** Sagnir þær, sem beygjast eptir hinni sterku beygingu, skiptast í 6 flokka eptir hinum ýmsu myndum, sem **hljóðskipti** þeirra tekr; þessa flokka má greina í sundr og þekkja á eptirfylgjandi aðaleinkennum (hinum mismunandi hljóðstaf í fort.):

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I. | Þát. | í | framsh. | í | eint. | **a** (**ö**), | flt. | **u** |
| II. | — | - | — | - | — | **a**, | — | **á** |
| III. | — | - | — | - | — | **ó**, | — | **ó** |
| IV. | — | - | — | - | — | **ei**, | — | **i** |
| V. | — | - | — | - | — | **au**, | — | **u** |
| VI. (A) | — | - | — | - | — | **e, é** | — | **e, é** |
| VI. (B) | — | - | — | - | — | **jó**, | — | **jó** (**jo, ju**). |

Af þessum 6 flokkum má kalla I—III *a*-**flokkinn**, af því að **a** kemr hér fram sem frumhljóðstafr, í I og II í eint. þát. í framsh., og í III í nafnh. nút.: I hefir **stuttan** rótarhljóðstaf með eptirfarandi **tveim** samhljóðöndum; II **stuttan** rótarhljóðstaf með eptirfarandi **einum** samhljóðanda; III hefir í nafnh. nút. **a** með eptirfarandi **einum** samhljóðanda (nokkur orð hafa aukið stofn sinn í nút. með **j**; í *vaxa* fer samsettr samhljóðandi [tví-samhljóðandi] eptir **a**). IV má kalla *i*-**flokkinn** (**i** í flt. þát. í framsh.), V *u*-**flokkinn** (**u** í flt. þát. í framsh.). VI hefir ýmsa rótarhljóðstafi, og er eiginlega ekki hljóðskiptisflokkr. — Í yfirliti því, er hér fer á eptir, yfir hinar helztu sterku sagnir, eru þessar myndir tilfœrðar: nafnh., 1. pers. eint. nút. í framsh., 1. pers. eint. og flt. þát. í framsh. og hlutto. fort. (Hin síðast talda mynd er sýnd í nf. eint. í kk., jafnvel þótt hún komi ekki fyrir nema í hvk. í einstökum orðum).

76. gr. **Fyrsti flokkr.**

| | nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|---|
| A) | i, e, ja (klofning) | i, e | a | u | u, o |
| B) | y, ø (hljóðvarp) | y, ø | ö (hljóðv.) | u | u, o |
| A) | binda | bind | batt | bundum | bundinn |
| | bresta | brest | brast | brustum | brostinn |
| | bjarga[1] | berg | barg | burgum | borginn |
| B) | syngva eða syngja | syng | söng | sungum | sunginn |
| | stökkva | støkk[2] | stökk | stukkum | stokkinn |

Þannig beygjast enn fremr:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| A) | finna | finn | fann | fundum / funnum | fundinn / funninn |
| | hrinda[3] | hrind | hratt | hrundum | hrundinn |
| | spinna | spinn | spann | spunnum | spunninn |
| | springa | spring | sprakk | sprungum | sprunginn |
| | stinga | sting | stakk | stungum | stunginn |
| | svimma[4] (=synda) | svimm | svamm | summum[4] | summinn[4] |
| | vinda | vind | vatt | undum[4] | undinn[4] |
| | vinna | vinn | vann | unnum | unninn |
| | bregða | bregð | brá (15. gr., a) | brugðum | brugðinn |
| | brenna (áhrifsl.)[5] | brenn | brann | brunnum | brunninn |
| | drekka | drekk | drakk | drukkum | drukkinn |
| | renna (áhrifsl.)[5] | renn | rann | runnum | runninn |
| | detta | dett | datt | duttum | dottinn |
| | hverfa | hverf | hvarf | hurfum | horfinn |
| | skreppa | skrepp | skrapp | skruppum | skroppinn |
| | sleppa | slepp | slapp | sluppum | sloppinn |

1) Nú er þessi sögn optast veik: *bjarga*, — *bjargaði*, *bjargað(r)*.

2) Nú í nútíð: *ég stekk*.

3) Nú líka veik: *hrindi, hrinti, hrint*.

4) Beygist einnig eptir öðrum flokki í fornmálinu: *svima, svim, svam, svámum, suminn* og einnig eftir hinni veiku beygingu: *svima, svimaða*. — *v* fellr hér og í eptirfarandi sögnum niðr samkv. 24. gr. c.

5) Þegar *brenna, renna, spretta* (og *skella*) eru áhrifssagnir, beygjast þær eptir hinni veiku beygingu; þát.: *brenda, renda, spretta* (og *skelda*).

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. form. |
|---|---|---|---|---|
| snerta[1] | snert | snart | snurtum | snortinn |
| spretta (áhrifsl.[2]) | sprett | spratt | spruttum | sprottinn |
| svelga[1] eða svelgja | svelg | svalg | sulgum | sólginn |
| svella | svell | svall | sullum | sollinn |
| svelta | svelt | svalt | sultum | soltinn |
| sverfa | sverf | svarf | surfum | sorfinn |
| vella | vell | vall | ullum | ollinn |
| velta | velt | valt | ultum | oltinn |
| verða | verð | varð | urðum | orðinn |
| verpa[3] | verp | varp | urpum | orpinn |
| þverra[4] | þverr | þvarr | þurrum | þorrinn |
| gjalda | geld | galt | guldum | goldinn |
| gjalla[5] | gell | gall | gullum | gollinn |
| hjálpa[6] | help | halp | hulpum | hólpinn |
| skjálfa | skelf | skalf | skulfum | skolfinn |
| skjalla[5] | skell | skall | skullum | skollinn |
| B) slyngva eða slyngja | slyng | slöng | slungum | slunginn |
| tyggva eða tyggja | tygg | tögg[7] | tuggum | tugginn |
| þryngva eða þryngja | þryng | þröng | þrungum | þrunginn |
| hrøkkva | hrøkk[8] | hrökk | hrukkum | hrokkinn |
| kløkkva | kløkk | klökk | klukkum | (klokkinn) |
| søkkva | søkk | sökk | sukkum | sokkinn |

1) Nú veik: *snerta, svelgja; snerti, svelgi; snerti, svelgdi; snertr, svelgdr.*

2) Sjá bls. 59, neðanmálsgr. 5.

3) Nú líka veik: *verpa, verpi, verpti.*

4) Nú veik: *þverra — þverraði.*

5) Þessar sagnir höfðu og stundum myndina *gella, skella* í nafnh. í fornmálinu, og þá mynd hafa þær ávalt nú.

6) Nú veik: *hjálpa, hjálpaði.*

7) Nú veik í þát.: *tugði,* flt. *tugðum.*

8) Nú *hrekk, sekk* í nút.; þegar *søkkva* og *støkkva* eru áhrifssagnir, eru þær veikar (þát. *søkða* [-*ta*], *støkða* [-*ta*], nú *sökti, stökti*).

77. gr. **Annar flokkr.**

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| A) e, i | | a (-ag | á | e |
| B) e | | breytist í -á) | | o, u |
| A) gefa | gef | gaf | gáfum | gefinn |
| biðja[1] | bið | bað | báðum | beðinn |
| B) bera | ber | bar | bárum | borinn |
| nema | nem | nam[2] | námum | numinn |

Þannig beygjast einnig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| A) drepa | drep | drap | drápum | drepinn |
| feta[3] | fet | fat | fátum | (fetinn) |
| freta[3] | fret | frat | (frátum) | (fretinn) |
| geta (= fá) | get | gat | gátum | getinn |
| kveða | kveð | kvað | kváðum | kveðinn |
| leka | lek | lak | lákum | lekinn |
| lesa | les | las | lásum | lesinn |
| meta | met | mat | mátum | metinn |
| reka | rek | rak | rákum | rekinn |
| vega | veg | vá[4] | vágum | veginn |
| liggja[5] | ligg | lá | lágum | leginn |
| sitja[5] | sit | sat | sátum | setinn |
| þiggja[5] | þigg | þá | þágum | þeginn |
| B) skera | sker | skar | skárum | skorinn |
| stela | stel | stal | stálum | stolinn |

Sérstakar óreglur koma fram í þessum sögnum:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| koma (f. *kvema) | køm / kem | kvam / kom | kvámum / kómum | kominn |

1) Jafnhliða þessari mynd er og höfð hin veika mynd *beiða*, *beidda* (nú *beiddi*); *biðja* hefir aukið stofn sinn í nút. með *j*, sem hefir breytt *e* í *i*.

2) Nú líka í þát. *numdi*, *numdum*.

3) Nú eptir hinni veiku beygingu (*feta*, *fetaði*; *freta*, *fretaði*).

4) Nú í þát. *vo* (*vó*, *óg*), flt. *ógum* og *vógum*.

5) Þessar sagnir hafa aukið nútíðarstofn sinn með **j**, sem hefir breytt *e* í *i* og í *liggja* og *þiggja* auk þess *g* í *gg*. — *þiggja* beygist nú líka eptir hinni veiku beyg. (þát. *þáði*, flt. *þáðum*, hlutto. *þáð*).

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| sofa (f. *svefa) | søf / sef | svaf | sváfum / sófum | sofinn |
| troða | trøð / treð | trað[1] | tráðum | troðinn |
| vefa | vef | vaf / óf | váfum / ófum | ofinn |
| eta[2] | et | át | átum | etinn |
| fela[3] | fel | fal | fálum | fólginn |
| fregna | fregn | frá | frágum | freginn |
| sjá (af *séa) | sé (flt. sjám[4]) | sá | sám | sénn |
| vera[5] | | var | várum | verit |

Nútíð í framsh. og viðtengh. af *vera* myndast af tveimr öðrum stofnum (framsh. *em, ert, er, erum, eruð, eru;* viðtengh. *sjá [sé], sér, sé, sém, séð, sé).* 2. og 3. pers. eint. í viðtengh. er og stundum *verir, veri* (í óskandi setningum). Í hinum elztu ritum hafa þær myndir, sem byrja með *ver- s,* í stað *r,* og enn fremr nútíðarmyndirnar *ert, er* og þátíðarmyndirnar *var, vart.*

78. gr. Þriðji flokkr.

| | nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|---|
| A) | a, e (hljóðvarp) | e | ó (-óg | ó | a |
| B) | a, á (ɔ: *aga) æ (hljóðv.) | e, æ | breytist í ó) | | e (12. gr., athgr. 3) |

1) Þátíð nú vanalega *tróð,* flt. *tróðum.*

2) Nú *éta* (*jeta*).

3) Nú vanalega *fela, faldi, földum, falinn* (einkum í þýðingunni *leyna*), en þátíð er líka *fól,* flt. *fólum* (einkum í sambandinu: *að fela e-m e-ð á hendr*).

4) Nú: *sjá, sé, sjáum, sá, sáum, séðr.*

5) Nú: *vera, er, var, vórum* eða *vorum. verið,* nút. í viðtengh. af þessu orði beygist nú svo: *sé, sért* (sbr. 72. gr., athgr. 2), *sé, séum, séuð, séu.*

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| A) fara | fer | fór | fórum | farinn |
| hefja | hef | hóf | hófum | hafinn |
| B) draga | dreg | dró | drógum | dreginn |
| flá | flæ | fló[1] | flógum | fleginn |

Þannig beygjast og:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| A) ala | el | ól | ólum | alinn |
| gala[2] | gel | gól | gólum | galinn |
| grafa | gref | gróf | grófum | grafinn |
| hlaða | hleð | hlóð | hlóðum | hlaðinn |
| kala | kel | kól | kólum | kalinn |
| mala[2] | mel | mól | mólum | malinn |
| skafa | skef | skóf | skófum | skafinn |
| skapa[3] | — | skóp | skópum | — |
| vaða | veð | óð (24. gr., c) | óðum | vaðinn |
| vaxa | vex | óx | óxum / uxum (yngra) | vaxinn |
| sverja | sver | sór | sórum | svarinn |
| B) aka | ek | ók | ókum | ekinn |
| gnaga[4] | gneg | gnó | gnógum | gneginn |
| skaka[5] | skek | skók | skókum | skekinn |
| taka | tek | tók | tókum | tekinn |
| klá[6] | klæ | kló | klógum | kleginn |
| slá | slæ | sló (sbr. 94. gr. a) | slógum | sleginn |

1) Nú líka veik í þát.: *fláði*, flt. *fláðum*.

2) Nú líka eptir hinni veiku beygingu (*mala* vanalega): *gala — galaði*, *mala — malaði — malaðr*.

3) Í öllum öðrum myndum en þát. beygist *skapa* eptir hinni veiku beygingu í fornmálinu (nút. *skapa*, hlutto. fort. *skapaðr*); í þát. er brúkað bæði *skapaða* og *skóp*. Auk þessa er í fornmálinu brúkuð nútíðarmyndin *skepja*, *skapða* (*-ta*), *skapiðr* og *skapðr* (*-tr*). Nú: *skapa — skapaði* (*skóp*)— *skapaðr*.

4) Vanalega er þó þessi sögn veik (*gnaga*, *gnagaða*) eins og nú (*naga — nagaði*).

5) Nú vanal. *skekja* í nafnh.; sjaldan *skaka*, *skakaði* eptir h. v. beyg.

6) Nú horfið (nema um hesta: *kljást* [ɔ: klóra hvor öðrum], ef til vill sama orðið); nú er hin veika sögn *klóra*, *klóraði* brúkuð í þess stað. Af sama stofni er hin áhrifalausa sögn *klæja*, *klæjaði*.

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| þvá[1] | þvæ | þ(v)ó | þ(v)ógum | þveginn |
| hlæja (f. *hlagja) | hlæ | hló | hlógum | hleginn |

Afbrigðilegar eru:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| deyja | dey | dó | dóm[2] | dáinn |
| geyja | gey | gó | góm | (gáinn) |
| standa | stend | stóð | stóðum | staðinn |

79. gr. Fjórði flokkr.

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| í | | ei (-eig getr breyzt í -é) | i | i |
| bíta | bít | beit | bitum | bitinn |
| stíga | stíg | steig / sté | stigum | stiginn |

Þannig beygjast og:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| drífa | dríf | dreif | drifum | drifinn |
| gína | gín | gein | ginum | gininn |
| grípa | gríp | greip | gripum | gripinn |
| hníga | hníg | hneig / hné | hnigum | hniginn |
| hníta | hnít | hneit | hnitum | hnitinn |
| hrífa | hríf | hreif | hrifum | hrifinn |
| hrína | hrín | hrein | hrinum | hrininn |
| hvína | hvín | hvein | hvinum | hvininn |
| klífa | klíf | kleif | klifum | klifinn |
| líða | líð | leið | liðum | liðinn |
| líta | lít | leit | litum | litinn |
| ríða | ríð | reið | riðum | riðinn |

1) Nú vanalega veik: *þvo*, *þvoði*
2) Nú *dóum*. Stundum er þessi sögn líka veik: þát. *deyði*.

| nafnh. | nút. | þát. eint. | flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| rífa | ríf | reif | rifum | rifinn |
| rísa | rís | reis | risum | risinn |
| rísta[1] | ríst | reist | ristum | ristinn |
| ríta[2] | rít | reit | ritum | ritinn |
| síða | síð | seið | siðum | siðinn |
| síga | síg | seig, sé | sigum | siginn |
| skína | skín | skein | skinum | skininn |
| skríða | skríð | skreið | skriðum | skriðinn |
| slíta | slít | sleit | slitum | slitinn |
| sníða | sníð | sneið | sniðum | sniðinn |
| svíða | svíð | sveið | sviðum | sviðinn |
| svífa | svíf | sveif | svifum | svifinn |
| þrífa | þríf | þreif | þrifum | þrifinn |
| svíkja | svík | sveik | svikum | svikinn |
| víkja | vík | veik | vikum | vikinn |

Afbrigðilegar eru:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| bíða | bíð | beið | biðum | beðinn |
| spýja[3] (af *spíva) | spý | spjó (af *speiv) | spjóm | — |

80. gr. **Fimti flokkr.**

| nafnh. | nút. | þát. eint. | flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| jó, jú; ú | ý | au(-aug getr orðið -ó) | u | o |

jó fyrir framan tannstaf, jú fyrir framan góm- og varastaf

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| bjóða | býð | bauð | buðum | boðinn |
| fljúga | flýg | flaug / fló | flugum | floginn |
| lúka[4] | lýk | lauk | lukum | lokinn |

1) Stundum einnig með *i* eptir hinni veiku beygingu (*rista*, *risti*, *rista*) eins og nú (*rista*, *risti*, *risti*).

2) Einnig með *i* eptir hinni veiku beygingu (*rita*, *ritaða*), eins og nú (*rita*, *rita*, *ritaði*, *ritaðr*).

3) Nú einnig veik: *spýja*, *spúa*, *spú*, *spúi*, *spúði*, flt. *spúðum*.

4) Nú *ljúka* í nafnh. Einnig veik í fornm. *lykja*, *lukða* (-*ta*).

5

Þannig beygjast og:

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| brjóta | brýt | braut | brutum | brotinn |
| fljóta | flýt | flaut | flutum | flotinn |
| frjósa | frýs | fraus[1] | frusum | frosinn |
| gjósa | gýs | gaus | gusum | gosinn |
| gjóta | gýt | gaut | gutum | gotinn |
| hljóta | hlýt | hlaut | hlutum | hlotinn |
| hnjóða[2] | hnýð | hnauð | hnuðum | hnoðinn |
| hnjósa | hnýs | hnaus | hnusum | hnosinn |
| hrjóða | hrýð | hrauð | hruðum | hroðinn |
| hrjósa | hrýs | hraus | hrusum | (hrosinn) |
| hrjóta | hrýt | hraut | hrutum | hrotinn |
| kjósa | kýs | kaus[3] | kusum / kurum | kosinn / korinn |
| ljósta | lýst | laust | lustum | lostinn |
| njóta | nýt | naut | nutum | notinn |
| rjóða | rýð | rauð | ruðum | roðinn |
| sjóða | sýð | sauð | suðum | soðinn |
| skjóta | skýt | skaut | skutum | skotinn |
| þjóta | þýt | þaut | þutum | þotinn |
| þrjóta (persónul.) | þrýt | þraut | (þrutum) | þrotinn |
| drjúpa | drýp | draup | drupum | dropinn |
| fjúka | fýk | fauk | fukum | fokinn |
| kljúfa | klýf | klauf | klufum | klofinn |
| krjúpa | krýp | kraup | krupum | kropinn |
| ljúga | lýg | laug / ló | lugum | loginn |
| rjúfa | rýf | rauf | rufum | rofinn |
| rjúka | rýk | rauk | rukum | rokinn |
| smjúga | smýg | smaug / smó | smugum | smoginn |
| strjúka | strýk | strauk | strukum | strokinn |
| lúta | lýt | laut | lutum | lotinn |

1) Í fornmálinu einnig *frøra (frera)*, *frørinn (frerinn)* (94. gr. a).

2) Nú einnig veik: *hnjóða, hnjóðaði.*

3) Þátíð og hlutto. fort. einnig *køra*, *kørinn* (94. gr. a); nú líka *kjöri*, *kjörinn.*

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| súga[1] | sýg | saug / só | sugum | soginn |
| súpa | sýp | saup | supum | sopinn |

81. gr. Sjötti flokkr.

A) 1. Í þát. eint. og flt. e, nafnh. og hlutto. fort. a með eptirfarandi tveimr samhljóðöndum.

| nafnh. | nút. | þát. eint | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| blanda[2] | blend | blett | blendum | blandinn |
| falda[2] | feld | felt | feldum | faldinn |
| falla | fell | fell[3] | fellum[3] | fallinn |
| halda | held | helt[3] | heldum[3] | haldinn |
| hanga[4] | — | hekk[3] | hengum[3] | hanginn |
| Með óreglul. hljóðvarpi í hluttaksorðinu (sbr. 78. gr. B). | | | | |
| fá (f. *fanga) | fæ (flt. fám[5]) | fekk[3] | fengum | fenginn |
| ganga | geng | gekk | gengum | genginn |

A) 2. Í þát. eint. og flt. é, nafnh. og hlutto. fort. á, ó, ei með eptirfarandi einföldum samhljóðanda.

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| blása | blæs | blés | blésum | blásinn |
| gráta | græt | grét | grétum | grátinn |
| láta | læt | lét | létum | látinn |
| ráða | ræð | réð[6] | réðum | ráðinn |
| blóta[7] | blœt | blét | blétum | blótinn |
| heita | heit[8] | hét | hétum | heitinn |

1) Nú *sjúga* í nafnh.; einnig sem veik sögn: *soga* — *sogaði*.

2) Nú eftir hinni veiku beygingu: *blanda, blandaði; falda, faldaði. blanda* er og opt veikt í fornmálinu, en *falda* sjaldan.

3) Nú með é (je): *féll, hélt, hékk, fékk; féllum, héldum, héngum.*

4) Veik í nút. *hangi.* — Jafnhliða þátíðarmyndinni *hékk* er nú og brúkuð myndin *hangdi.*

5) Nú *fáum.*

6) Nú einnig *réði* í þát.

7) Snemma einnig eptir hinni veiku beygingu (*blóta, blótaða*) eins og nú (*blóta, blótaði*).

8) Nú ávalt *heiti* í nút.; í fornmálinu hafði sögnin þá mynd í nút. að eins í merkingunni: *„að bera nafn“.*

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| leika | leik | lék | lékum | leikinn |

B) Í þát. eint. **jó**; flt. **jó**; **jogg, jugg**; nafnh. og hlutto. fort. **au, ú, öggv**:

| nafnh. | nút. | þát. eint. | þát. flt. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| auka | eyk | jók | jókum (jukum) | aukinn |
| ausa | eys | jós | jósum (jusum) | ausinn |
| hlaupa | hleyp | hljóp | hljópum (hlupum) | hlaupinn |
| búa | bý | bjó | bjoggum bjuggum | búinn |
| höggva | høgg(13.gr.)[1] | hjó | hjoggum hjuggum | höggvinn |

82. gr. Hversu hættir og persónur myndast í hverjum einstökum flokki, má sjá af eftirfarandi dœmum: I. A) *binda*, I. B) *støkkva* (með *ø* sökum v, 11. gr., d), II. *gefa*, III. *fara*, IV. *grípa*, V. *skjóta*, VI. A) *falla*, VI. B) *hlaupa:*

---

1) Nú *hegg* í nútíð.

| | | I. A) | I. B) | II. | III. | IV. | V. | VI. A) | VI. B) |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | **Nútíð:** | | | | |
| | | | | | **framsöguháttr:** | | | | |
| Eint. | 1. | bind | støkk[1] | gef | fer | gríp | skýt | fell | hleyp |
| | 2. | bindr | støkkr[1] | gefr | ferr[2] | grípr | skýtr | fellr | hleypr |
| | 3. | bindr | støkkr[1] | gefr | ferr[2] | grípr | skýtr | fellr | hleypr |
| Flt. | 1. | bindum | støkkum[1] | gefum | förum | grípum | skjótum | föllum | hlaupum |
| | 2. | bindið (-t) | støkkvið (-t) | gefið (-t) | farið (-t) | grípið (-t) | skjótið (-t) | fallið (-t) | hlaupið (-t) |
| | 3. | binda | støkkva | gefa | fara | grípa | skjóta | falla | hlaupa |
| | | | | | **viðtengingarháttr:** | | | | |
| Eint. | 1. | binda (-i) | støkkva (-i) | gefa (-i) | fara (-i) | grípa (-i) | skjóta (-i) | falla (-i) | hlaupa (-i) |
| | 2. | bindir | støkkvir | gefir | farir | grípir | skjótir | fallir | hlaupir |
| | 3. | bindi | støkkvi | gefi | fari | grípi | skjóti | falli | hlaupi |
| Flt. | 1. | bindim[3] | støkkvim[3] | gefim[3] | farim[3] | grípim[3] | skjótim[3] | fallim[3] | hlaupim[3] |
| | 2. | bindið (-t) | støkkvið (-t) | gefið (-t) | farið (-t) | grípið (-t) | skjótið (-t) | fallið (-t) | hlaupið (-t) |
| | 3. | bindi | støkkvi | gefi | fari | grípi | skjóti | falli | hlaupi |
| | | | | | **boðháttr:** | | | | |
| Eint. | 2. | bitt | støkk | gef | far | gríp | skjót | fall | hlaup |
| Flt. | 1. | bindum | støkkum[4] | gefum | förum | grípum | skjótum | föllum | hlaupum |
| | 2. | bindið (-t) | støkkvið (-t) | gefið (-t) | farið (-t) | grípið (-t) | skjótið (-t) | fallið (-t) | hlaupið (-t) |
| | | | | | **nafnháttr:** | | | | |
| | | binda | støkkva | gefa | fara | grípa | skjóta | falla | hlaupa |
| | | | | | **hluttaksorð:** | | | | |
| | | bindandi | støkkvandi | gefandi | farandi | grípandi | skjótandi | fallandi | hlaupandi |

1) Nú *stekk, stekkr, stekkr, stökkvum* o. s. frv.
2) Nú 2. pers. *ferð*, 3. pers. *fer*.
3) Nú -um: *bindum, stökkvum, gefum, förum, grípum, skjótum, föllum, hlaupum.*
4) Nú *stökkvum.*

| | | I. A) | I. B) | II. | III. | IV. | V. | VI. A) | VI. B) |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | **Þátíð:** | | | | |
| | | | | | framsöguháttr: | | | | |
| Eint. | 1. | batt | stökk | gaf | fór | greip | skaut | fell[1] | hljóp |
| | 2. | bazt | stökkt[1] | gaft[1] | fórt[1] | greipt[1] | skauzt | fellt[1] | hljópt[1] |
| | 3. | batt | stökk | gaf | fór | greip | skaut | fell | hljóp |
| Flt. | 1. | bundum | stukkum | gáfum | fórum | gripum | skutum | fellum | hljópum, hlupum |
| | 2. | bunduð (-t) | stukkuð (-t) | gáfuð (-t) | fóruð (-t) | gripuð (-t) | skutuð (-t) | felluð (-t) | hljópuð (-t) hlupuð |
| | 3. | bundu | stukku | gáfu | fóru | gripu | skutu | fellu | hljópu, hlupu |
| | | | | | viðtengingarháttr: | | | | |
| Eint. | 1. | bynda (-i) | stykkva (-i)[2] | gæfa (-i) | fœra (-i) | gripa (-i) | skyta (-i) | fella (-i) | hlypa (-i) |
| | 2. | byndir | stykkvir | gæfir | fœrir | gripir | skytir | fellir | hlypir |
| | 3. | byndi | stykkvi | gæfi | fœri | gripi | skyti | felli | hlypi |
| Flt. | 1. | byndim[3] | stykkvim[3] | gæfim[3] | fœrim[3] | gripim[3] | skytim[3] | fellim[3] | hlypim[3] |
| | 2. | byndið (-t)[3] | stykkvið (-t)[3] | gæfið (-t)[3] | fœrið (-t)[3] | gripið (-t)[3] | skytið (-t)[3] | fellið (-t)[3] | hlypið (-t)[3] |
| | 3. | byndi[3] | stykkvi[3] | gæfi[3] | fœri[3] | gripi[3] | skyti[3] | felli[3] | hlypi[3] |
| | | | | | hluttaksorð: | | | | |
| | | bundinn | stokkinn | gefinn | farinn | gripinn | skotinn | fallinn | hlaupinn |

1) Nú -st í 2. pers. og é í þát. af *falla*: *stökkst, gafst, fórst, greipst, féllst, hljópst.*
2) *v* fellr nú niðr: *stykki, stykkir, stykkjum, stykkjuð, stykkju.*
3) Nú -um, -uð, -u: *byndum, stykkjum, gæfum, færum, gripum, skytum, féllum, hlypum* o. s. frv.

## B. Veika beygingin.

83. gr. Frummyndirnar (kennimyndirnar) eru nafnháttr nútíðar, þátíð í framsöguhætti og hluttaksorð fortíðar t. d.:

*færa* — *færða* — *færðr*

Nútíð hefir hinar sömu endingar sem í sterku beygingunni; en þát. í framsh. hefir í 1. pers. eint. endinguna **-ða** (seinna **-ði**), í 2. **-ðir**, og í 3. **-ði**; í flt. og í viðtengh. eru endingarnar hinar sömu og í sterku beygingunni, þegar **-ð** er skeytt framan við þær; hluttaksorð fortíðar endar á **-ðr**. Í stað **-ða**, **-ðr** kemr í vissum samböndum **-da** eða **-ta**, **-dr** eða **-tr**.

Athgr. Breytingar þær, sem nú eru orðnar á endingunum, eru taldar í 72. gr., athgr. 2.

84. gr. Hinar veiku sagnir skiptast í 4 flokka; í þrem hinum fyrstu endar þátíðin á **-ða** (**-da**, **-ta**), en í hinum fjórða á **-aða**. Þar sem **-ða** og **-ðr** (í þrem hinum fyrstu flokkum) er bætt við sjálfa rótina, gilda þessar reglur:

1. Eptir hljóðstafi og eptir **f**, **g**, **r**, **m** (**mb**), **k** og **p** fer **ð**: *ná, náða, náðr; krefja, krafða, krafiðr* og *krafðr; vígja, vígða, vígðr; heyra, heyrða, heyrðr; dæma, dæmða, dæmðr; vekja, vakða, vakiðr* og *vakðr; hleypa, hleypða, hleypðr*. Eptir **lf**, **lg**, **ng**, **m** (**mb**) kemr seinna **d** og eptir **k** og **p** á sama hátt **t** í stað **ð**: *fylgja, fylgda* (eldra *fylgða), fylgdr* (eldra *fylgðr*)*; hleypa, hleypta, hleyptr* o. s. frv.

2. Eptir **l** og **n** fer **ð**, þegar rótarsamstafan er stutt, en **d** (í sumum orðum **t**), þegar hún er löng: *velja, valða, valiðr* og *valðr; una, unða, unat; fylla, fylda, fyldr; nefna, nefnda, nefndr; mæla, mælta, mæltr*. Seinna kemr **d** í stað **ð** einnig í þeim orðum, sem hafa stutta rótarsamstöfu.

3. Eptir hljóðstafi breytist **ðð** í **dd**: *fæða, fædda, fæddr*.

4. Eptir **t** og **s** fer **t**: *feita, feitta, feittr; lýsa, lýsta, lýstr*.

5. Eptir **d**, **ð** og **t** með undanfarandi samhljóðanda fellr **ð** niðr (sbr. 23. gr.): *senda, senda* (f. **send-da* úr

**send-ða*), *sendr* (f. **send-dr* úr **send-ðr*), *gyrða*, *gyrða* (f. **gyrð-ða*), *gyrðr* (f. **gyrð-ðr*); *hrista*, *hrista* (f. **hrist-ta* úr **hrist-ða*), *hristr* (f. **hrist-tr* úr **hrist-ðr*).

6. Á undan endingunum í þátíð (**-ða**, **-da**, **-ta**) og í hlutto. fort. (**-ðr**, **-dr**, **-tr**) breytist tvöfaldr samhljóðandi vanalega í einfaldan: *kenna, kenda, kendr; sleppa, slepta, sleptr* (sbr. 5. gr., 7).

Athgr. Í núverandi máli endar þátíðin á *-ði*, *-di*, *-ti* (hlutto. fort. á *-ðr*, *-dr*, *-tr*) samkvæmt hinum yngri reglum, er taldar eru í 84. gr. 1—4. Hins vegar fá þau orð, er enda á *ð* og *d* með undanfarandi samhljóðanda (*rð*, *ld*, *nd*), í þát. og hlutto. fort. vanalega *t* í stað hins eldra *ð*, *d*; 84. gr., 5: *hirða*, þát. *hirti*; hlutto. fort. *hirtr*; *gelda*, þát. *gelti*, hlutto. fort. *geltr*; *benda*, þát. *benti*, hlutto. fort. *bentr*; þó vanalega *senda*, þát. *sendi*, hlutto. fort. *sendr*.

## 85. gr. Fyrsti flokkr.

Í þát. er bœtt við endingunni **-ða** (**-da**, **-ta**), í hluttaksorði fort. **-ðr** (**-dr**, **-tr**). Allar sagnir eptir þessum flokki hafa langa rótarsamstöfu. Það er einkennilegt fyrir þessar sagnir að þær hafa **j** í stofninum, sem veldr hljóðvarpi, sem helzt gegnum alla beyginguna; þetta *j* kemr fram í eint. nút. sem **i**, og verðr hún því tvíkvæð; þar á móti fellr það niðr á undan **i**, og enn fremr á undan **a** og **u**, nema í þeim sögnum, þar sem rótin endar á **g** og **k**. Dœmi:

A) 1. Þátíð endar á **-ða**, hlutto. á **-ðr** eptir **f**, **r**, **m** (**mb**) og **p** (seinna á **-da**, **-dr** eptir **lf**, **m** (**mb**) og á **-ta**, **-tr** eptir **p**).[1]

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| deyfa | deyfi | deyfða | deyfðr |
| erfa | erfi | erfða | erfðr |
| skelfa | skelfi | skelfða (-da) | skelfðr (-dr) |
| fœra | fœri | fœrða | fœrðr |
| heyra | heyri | heyrða | heyrðr |
| stýra | stýri | stýrða | stýrðr |
| dreyma | dreymi | dreymða (-da) | dreymðr (-dr) |
| dœma | dœmi | dœmða (-da) | dœmðr (-dr) |
| kemba | kembi | kembða (-da) | kembðr (-dr) |
| gleypa | gleypi | gleypða (-ta) | gleypðr (-tr) |

1) Nú á *-ði*, *-di*, *-ti* og *-ðr*, *-dr*, *-tr* samkv. sömu reglum.

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| hleypa | hleypi | hleypða (-ta) | hleypðr (-tr) |
| kippa | kippi | kipða (-ta) | kipðr (-tr) |

A) 2. Þátíð endar á -da, og hluttaksorð á -dr eptir l og n (sbr. A, 4):[1]

| | | | |
|---|---|---|---|
| deila | deili | deilda | deildr |
| fella | felli | felda | feldr |
| fylla | fylli | fylda | fyldr |
| kenna | kenni | kenda | kendr |
| nefna | nefni | nefnda | nefndr |
| renna | renni | renda | rendr |

A) 3. Eptir ð með undanfarandi hljóðstaf breytist ðð í þát. og í hlutto. í dd[1]:

| | | | |
|---|---|---|---|
| beiða | beiði | beidda | beiddr |
| eyða | eyði | eydda | eyddr |
| fœða | fœði | fœdda | fœddr |

A) 4. Þátíð endar á -ta, og hlutto. á -tr eptir t með undanfarandi hljóðstaf, og eptir s, og enn fremr stundum eptir l og n (sbr. A, 2):[1]

| | | | |
|---|---|---|---|
| bœta | bœti | bœtta | bœttr |
| feita | feiti | feitta | feittr |
| veita | veiti | veitta | veittr |
| hvessa | hvessi | hvesta | hvestr |
| leysa | leysi | leysta | leystr |
| missa | missi | mista | mistr |
| mæla | mæli | mælta | mæltr |
| spilla | spilli | spilta | spiltr |
| inna | inni | inta | intr |
| nenna | nenni | nenta | nentr |

A) 5. Eptir d, ð og t með undanfarandi samhljóðanda fellr ð niðr, svo að 1. pers. eint. í þát. fær sömu mynd og nafnh.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| benda | bendi | benda | bendr |
| gelda | geldi | gelda | geldr |
| senda | sendi | senda | sendr |
| gyrða | gyrði | gyrða | gyrðr |
| hirða | hirði | hirða | hirðr |
| virða | virði | virða | virðr |

1) Nú *-di*, *-dr* (A, 2—3), og *-ti*, *-tr* (A, 4) samkv. sömu reglum.

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| festa | festi | festa | festr |
| hitta | hitti | hitta | hittr |
| hrista | hristi | hrista | hristr |

Athgr. Í núverandi máli hafa flest af þeim orðum, er hér til teljast, í stað *-da* og *-ða* í þát. og hlutto. fort. *-ti*, *-tr* (*benti*, *gyrti* o. s. frv.; sjá 84. gr., athgr.) og gera þannig greinarmun á 1. pers. nút. og þát.

B) 1. Í þeim sögnum, þar sem rótin endar á **g** og **k**, er **j** skotið inn á undan **a** og **u**. Þát. og hlutto. endar á **-ða**, **-ðr** (eptir **lg** og **ng** seinna **-da**, **-dr**, eptir **-k**, **-ta**, **-tr**)[1]:

| | | | |
|---|---|---|---|
| fylgja | fylgi | fylgða (-da) | fylgðr (-dr) |
| tengja | tengi | tengða (-da) | tengðr (-dr) |
| vígja | vígi | vígða | vígðr |
| drekkja | drekki | drekða (-ta) | drekðr (-tr) |
| fylkja | fylki | fylkða (-ta) | fylkðr (-tr) |
| merkja | merki | merkða (-ta) | merkðr (-tr) |

B) 2. Í nokkrum sögnum, þar sem rótin endar á **v** (með undanfarandi **g** eða **k**) fellr *v* niðr í beygingunni nema á undan **a** og **i**. Í nokkrum sögnum endar nafnh. bæði á *-va* og seinna á *-ja*[2]:

| | | | |
|---|---|---|---|
| {byggva / byggja | {byggvi / byggi | bygða | bygðr |
| sløngva[3] | sløngvi | sløngða (-da) | sløngðr (-dr) |
| støkkva | støkkvi | støkða (-ta) | støkðr (-tr) |
| søkkva | søkkvi | søkða (-ta) | søkðr (-tr) |

Til þessara sagna telst og:

| | | | |
|---|---|---|---|
| gøra eða gera[4] (eldra gørva, gerva) | gøri, geri (gørvi, gervi) | {gørða / gerða | — |

Sem hlutto. fort. er brúkað lýsingarorðið *görr* (einnig *gørr*, *gerr*, þf. *görvan* o. s. frv., beygist sem *fölr*, 50. gr.).

---

1) Nú hafa þessar sagnir *-ði*, *-di*, *-ti* í þát. samkv. hinum yngri reglum í 84. gr.

2) Nú hafa þessar sagnir *-ði*, *-di*, *-ti* í þát. samkv. hinum yngri reglum í 84. gr.

3) Nú *slengja*, *slengi*, *slengdi*, *slengdr*, líka veik *slöngva*, *slöngvaði*.

4) Nú: *gera*, *gjöra*; *geri*, *gjöri*; *gerði*, *gjörði*; *gerðr*, *gjörðr*.

**86. gr.** Nokkrar sagnir beygjast í nút. eptir þessum flokki, en eru óreglulegar í þát. og hlutto. fort.

| nafnh. | nút. | þát. framsh. | þát. viðtengh. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| sœkja | sœki | sótta[1] | sœtta[1] | sóttr |
| yrkja | yrki | orta[1] | yrta[1] | ortr |
| {þykkja[2] / þikkja | {þykki / þikki | þótta | þœtta | þóttr |

**87. gr.** Annar flokkr.

Þátíð fær viðbótina **-ða** (**-da, -ta**), hlutto. fort. **-ðr** (**-dr, -tr**), en í mörgum sögnum einnig **-iðr** (sem er hin elzta ending og í núverandi máli hefir breytzt í **-inn**). Allar sagnir eptir þessum flokki hafa stutta rótarsamstöfu. Það er einkennilegt fyrir þenna flokk, að stofn sagnanna endar á **j**, sem helzt í nútíð (flt.) á undan **a** og **u** og veldr hljóðvarpi (einkum **a**—**e** og **u**—**y**). Hins vegar vantar hljóðvarpið í þát. framsh. og hlutto. fort., en þar kemr frumhljóðið (**a**, **u**) fram. Þát. í viðtengh. hefir eins og nút. *i*-hljóðvarp. Eint. nút. framsh. er einkvæð. Dœmi:[3]

A) Með **a** að rótarstaf:

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| berja | ber | barða | bariðr, barðr |
| dvelja | dvel | dvalða (-da) | dvaliðr, dvalðr (-dr) |
| etja | et | atta | attr |

1) Nú: *sótti* (*sókti*), *sækti; orti* (t. d. kvæði) og *yrti* (t. d. jörðina), eins í viðtengh.

2) 3. pers. eint. í nút. í framsh. hafði í fornmálinu opt myndina *þykki* (*þikki*) f. *þykkir* (*þykkir*), einkum er *mér* og *þér* fór eptir. — Nú beygist þessi sögn þannig: *þykja, þyki, þótti, þætti, þótt(r)*.

3) Nú *-ði, -di, -ti* í þát. samkv. hinum yngri reglum í 84. gr. Í staðinn fyrir endinguna *-iðr* í hlutto. fort. eru í núverandi máli brúkaðar myndir með endingunni *-inn* (*barinn* o. s. frv., sem beygist samkv. 49. gr. c, niðrl.). Hvað snertir aðra pers. eint. í nút. í framsh. *berð* o. s. frv., sjá 72. gr., athgr. 2.

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| fremja | frem | framða (-da) | framiðr, framðr (-dr) |
| hvetja | hvet | hvatta | hvattr |
| krefja | kref | krafða | krafiðr, krafðr |
| kveðja | kveð | kvadda | kvaddr |
| kvelja | kvel | kvalða (-da) | kvaliðr, kvalðr (-dr) |
| telja | tel | talða (-da) | taliðr, talðr (-dr) |
| temja | tem | tamða (-da) | tamiðr, tamðr (-dr) |
| vekja | vek | vakða (-ta) | vakiðr, vakðr (-tr) |
| velja | vel | valða (-da) | valiðr, valðr (-dr) |

Þannig beygist einnig:

| | | | |
|---|---|---|---|
| leggja | legg | lagða | lagiðr, lagðr |

B) Með u að rótarstaf:

| | | | |
|---|---|---|---|
| dylja | dyl | dulða (-da) | duliðr, dulðr (-dr) |
| flytja | flyt | flutta | fluttr |
| hylja | hyl | hulða (-da) | huliðr, hulðr (-dr) |
| smyrja | smyr | smurða | smurðr |
| spyrja[1] | spyr | spurða | spurðr |
| styðja | styð | studda | studdr |
| stynja | styn | stunða (-da) | stunit, stunt[2] |

Til þessara sagna telst og:

| | | | |
|---|---|---|---|
| hyggja | hygg | hugða | hugt eða hugat[2] |

C) Með i að rótarstaf:

| | | | |
|---|---|---|---|
| skilja | skil | skilða (-da) | skiliðr, skilðr (-dr) |
| þilja[3] | þil | þilða (-da) | þiliðr, þilðr (-dr) |

D) Með þær sagnir, þar sem rótin endar á langan hljóðstaf, er farið sem með sagnir, er hafa stutta rótarsamstöfu.

| | | | |
|---|---|---|---|
| dýja (= skekja) | dý | dúða | (dúiðr, dúðr) |
| gnýja (=láta hátt) | gný | gnúða | (gnúit, gnútt) |
| knýja | ký | knúða | knúiðr, knúðr |
| hlýja[4] | hlý | hlúða | (hlúit, hlútt) |

1) Nú vanalega *spurja* í daglegu tali.
2) Nú *stunið*, *hugað*.
3) Nú *þilja*, *þiljaði*, *þiljaðr*.
4) Nú líka *hlúa* og *hlú* í nafnh. og *hlúi* í nút.

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| lýja[1] | lý | lúða | lúiðr, lúðr |
| rýja[2] | rý | rúða | rúiðr, rúðr |
| æja[3] | æ | áða | áit, átt |
| heyja[4] | hey | háða | háiðr, háðr |
| þreyja (seinna þrá)[5] | þrey (þrá) | þráða | þráðr |

88. gr. Þessar sagnir eru óreglulegar að því leyti, að þær halda hljóðvarpinu í þát. og hlutto. fort.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| selja | sel | selda | seldr |
| setja | set | setta | settr |

| | | | |
|---|---|---|---|
| flýja (eldra flœja[6]) | flý | flýða | flýiðr, flýðr |
| frýja[7] | frý | frýða | frýiðr, frýðr. |

89. gr. Þriðji flokkr.

Þátið fær viðbótina **-ða** (**-da**, **-ta**)[8] og hlutto. fort. **-aðr**, sjaldan **-ðr** (**-dr**, **-tr**). Rótarsamstafan er vanalega stutt; 1. pers. eint. í nút. í framsh. endar á **i**, en þó verðr eigi hljóðvarp nema í þát. í viðtengh.; 2. pers. eint. í boðhætti endar á **i**, sem þó hefir snemma fallið niðr í mörgum sögnum[9]. Til þessa flokks teljast ekki mörg orð, en þó teljast nokkrar af hinum algengustu sögnum til hans, t. d.:

---

1) Nú líka *lýi* í nút.

2) Nú líka *rúa*, *rú* í nafnh. og *rýi* og *rúi* í nút.

3) Nú líka *á* í nafnh. og *ái* í nút.; *áð* í hlutto. fort,

4) Nú líka *há* í nafnh. og *heyi* og *hái* í nút.

5) Nú *þreyi* og *þrái* í nút.; *þráði* og *þreyði* í þát., og *þráðr* og *þreyðr* í hlutto. fort.

6) Nú *flýja* og *flúa*, *flýði* og *flúði*, *flúinn*.

7) Nú *frýja*, *frýja*, *frýjaði* (og *frýði*), *frýjað*.

8) Nú *-ði*, *-di*, *-ti* samkv. framantöldum reglum.

9) Nú er *-i* að eins haldið í myndinni *þegi* í 2. pers. eint. í boðh.

| nafnh. | nút. | þát. framsh. | þát. viðtengh. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| duga | dugi | dugða | dygða[1] | dugat[2] |
| horfa | horfi | horfða | hyrfða[1] | (horfat) horft |
| lifa | lifi | lifða | lifða | lifat |
| sama[2] | sami | samða(-da) | semða(-da) | samat |
| skorta | skorti | skorta | skyrta | (skortat) skort |
| spara[3] | spari | sparða | sperða | sparat, spart |
| trúa | trúi | trúða | trýða | trúat |
| una | uni | unða (-da) | ynða (-da) | unat |
| vaka | vaki | vakða (-da) | vekða (-ta) | vakat |
| þola | þoli | þolða(-da) | þylða(-da) / þølða | þolat, þolt |
| þora | þori | þorða | þyrða / þørða | þorat |

Með úrfelling hljóðstafs samkv. 17. gr. b.:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| gá | gái | gáða | gæða | gáðr (hvk. gát)[4] |
| ná | nái | náða | næða | náðr (hvk. nát)[5] |

90. gr. Sérstaklega óreglulegar eru:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| hafa[6] | hefi | hafða | hefða | hafðr |

Í eint. í nút. í framsh. er hljóðvarp (*hefi, hefir, hefir,* en í flt. *höfum, hafið, hafa;* í viðtengh. *hafa* o. s. frv.; 2. pers. eint. í boðh. *haf).*

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| segja | segi | sagða | segða | sagðr |
| þegja | þegi | þagða | þegða | þagat,[7] þagt |

---

1) Viðtengh. í þát. hefir nú í sumum sögnum hljóðvarp, en í sumum ekki og fellr þá saman við þát. í framsh. (*dygði, horfði, lifði, skorti, trýði, yndi, vekti, þyldi, þyrði*).

2) Þessi sögn er nú ekki brúkuð, en aptr *sœma* og *sóma*, *sœmi* og *sómi*, *sœmdi* og *sómdi*.

3) Nú *spara*, *sparaði*.

4) Í stað: **gáaðr*, (**gáat*). Nú: *gá*, *gái*, *gáði*, *gáði*, *gáðr*. (*gáð*).

5) Í stað: **náaðr* (**náat*). Nú: *ná*, *næ* — *nái*, *náði* — *næði*, *náðr* (*náð*).

6) Nú: *hafa*, *hef* (þú, hann *hefr*) — *hafi*, *hafði* — *hefði*, *hafðr*.

7) Nú: *þagað*.

*segja* og *þegja* hafa hljóðvarp í nút. sökum **j**; 2. pers. eint. í boðh. er *seg*, en aptr *þegi*.

| nafnh. | nút. | þát. framsh. | þát. viðtengh. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|
| kaupa | kaupi | keypta | keypta | keyptr |
| ljá (úr *léa) | lé | léða | léða | léðr, hvk. lét[1] |
| tjá (úr *téa) | té | téða | téða | téðr, hvk. tét[1] |

91. gr. Fjórði flokkr.

Þátíð fær viðbótina **-aða**;[2] hlutto. fort. **-aðr**. 1. pers. eint. í nút. í framsh. endar á **a**. Hljóðvarpið vantar einnig í þát. í viðtengh.; 2. pers. eint. í boðh. endar á **a**. Í þeim orðum, þar sem stofninn endar á **j** eða **v**, haldast þessir stafir og hljóðvarp það, er þeir valda, gegnum alla beyginguna. Eptir þessum flokki beygist megnið af ísl. sögnum, t. d.:

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| elska | elska | elskaða | elskaðr |
| kalla | kalla | kallaða | kallaðr |
| slitna | slitna | slitnaða | slitnaðr |

og þannig beygjast allar þær sagnir, sem myndaðar eru með afleiðsluendingunni **-na** (hefjisagnir [inchoativa]: *batna*, *vakna* o. s. frv.).

Með hljóðstafs úrfelling samkv. 17. gr. b.:

| | | | |
|---|---|---|---|
| spá | spá[3] | spáða | spáðr (hvk. spát[4]) |
| strá | strá[3] | stráða | stráðr |
| þjá | þjá[3] | þjáða | þjáðr |

1) Myndirnar *lét*, *tét* eru ekki hvk. af kk. *léðr*, *téðr* heldr af hinni eldri mynd *lénn* (sem örsjaldan kemr fyrir), **ténn*. Þessar sagnir beygðust upprunalega eptir hinni *sterku* beygingunni. Nú: *ljá*, *ljæ*, *léði*, *léðr* (*léð*); *tjá*, *tjái*, *tjáði* og *téði*, *tjáðr* og *téðr* (*tjáð* og *téð*).

2) Nú: *-aði* í þát. samkv. framantöldum reglum.

3) Nú: *spái*, *strái*, *þjái*.

4) Nú: *spáð*.

Með **j** og **v** í stofninum:

| nafnh. | nút. | þát. | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|
| byrja | byrja | byrjaða | byrjaðr |
| eggja | eggja | eggjaða | eggjaðr |
| herja | herja | herjaða | herjaðr |
| bölva | bölva | bölvaða | bölvaðr |
| stöðva | stöðva | stöðvaða | stöðvaðr |

92. gr. Hversu hættir og persónur myndast í hverjum einstökum flokki, má sjá af eptirfarandi dœmum: I. A) *dœma,* I. B) *byggva* (í fornmálinu á elztu tímum) eða *byggja,* II. A) *temja,* II. B) *hylja,* III. *vaka,* IV. *kalla:*

## Nútíð.

| | | I. A) | I. B) | II. A) | II. B) | III. | IV. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | **framsöguháttr:** | | | | | |
| Eint. | 1. | dœmi | byggvi | byggi | tem | hyl | vaki | kalla |
| | 2. | dœmir | byggvir | byggir | temr | hylr | vakir | kallar |
| | 3. | dœmir | byggvir | byggir | temr | hylr | vakir | kallar |
| Flt. | 1. | dœmum | byggum | byggjum | temjum | hyljum | vökum | köllum |
| | 2. | dœmið (-t) | byggvið | byggið (-t) | temið (-t)[1] | hylið (-t)[1] | vakið (-t) | kallið (-t) |
| | 3. | dœma | byggva | byggja | temja | hylja | vaka | kalla |
| | | **viðtengingarháttr:** | | | | | |
| Eint. | 1. | dœma (-i) | byggva | byggja (byggi) | temja (temi) | hylja (hyli) | vaka (-i) | kalla (-i) |
| | 2. | dœmir | byggvir | byggir | temir | hylir | vakir | kallir |
| | 3. | dœmi | byggvi | byggi | temi | hyli | vaki | kalli |
| Flt. | 1. | dœmim[2] | byggvim[2] | byggim[2] | temim[2] | hylim[2] | vakim[2] | kallim[3] |
| | 2. | dœmið (-t) | byggvið | byggið (-t) | temið (-t) | hylið (-t) | vakið (-t) | kallið (-t) |
| | 3. | dœmi | byggvi | byggi | temi | hyli | vaki | kalli |
| | | **boðháttr:** | | | | | |
| Eint. | 2. | dœm | bygg | bygg | tem | hyl | vaki[3] | kalla |
| Flt. | 1. | dœmum | byggum | byggjum | temjum | hyljum | vökum | köllum |
| | 2. | dœmið (-t) | byggvið | byggið (-t) | temið | hylið (-t) | vakið | kallið (-t) |
| | | **nafnháttr:** | | | | | |
| | | dœma | byggva | byggja | temja | hylja | vaka | kalla |
| | | **hluttaksorð:** | | | | | |
| | | dœmandi | byggvandi | byggjandi | temjandi | hyljandi | vakandi | kallandi |

1) Þær sagnir, sem hafa **j** í stofninum, halda því nú alstaðar á undan *i*: *temjið*, *hyljið*; þó fellr **j** niðr á undan **i**, sem í fornmálinu, þegar *g* eða *k* fer á undan: *hrekið*, *hyggið*.
2) Nú -um: *dœmum*, *byggjum*, *temjum*, *hyljum*, *vökum*, *köllum*.
3) Nú *vak*.

| | | I. A) | I. B) | II. A) | II. B) | III. | IV. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | **Þátíð:** | | | |
| | | | | **framsöguháttr:** | | | |
| Eint. | 1. | dœmða (-i)[1] | bygða (-i) | tamða (-i)[1] | hulða (-i)[1] | vakða (-i)[2] | kallaða (-i) |
| | 2. | dœmðir | bygðir | tamðir | hulðir | vakðir | kallaðir |
| | 3. | dœmði | bygði | tamði | hulði | vakði | kallaði |
| Flt. | 1. | dœmðum | bygðum | tömðum | hulðum | vökðum | kölluðum |
| | 2. | dœmðuð (-t) | bygðuð (-t) | tömðuð (-t) | hulðuð (-t) | vökðuð (-t) | kölluðuð (-t) |
| | 3. | dœmðu | bygðu | tömðu | hulðu | vökðu | kölluðu |
| | | | | **viðtengingarháttr:** | | | |
| Eint. | 1. | dœmða (-i)[1] | bygða (-i) | temða (-i)[1] | hylða (-i)[1] | vekða (-i)[2] | kallaða (-i) |
| | 2. | dœmðir | bygðir | temðir | hylðir | vekðir | kallaðir |
| | 3. | dœmði | bygði | temði | hylði | vekði | kallaði |
| Flt. | 1. | dœmðim[3] | bygðim[3] | temðim[3] | hylðim[2] | vekðim[3] | kallaðim[3] |
| | 2. | dœmðið (-t) | bygðið (-t) | temðið (-t) | hylðið (-t) | vekðið (-t) | kallaðið |
| | 3. | dœmði | bygði | temði | hylði | vekði | kallaði |
| | | | | **hluttaksorð:** | | | |
| | | dœmðr[1] | bygðr | tamiðr,[4] tamðr[1] | huliðr,[4] hulðr[1] | vakat[5] | kallaðr |

1) Seinna kemr *d* í stað *ð*, og svo er ávalt nú: *dœmdi*, *tamdi*, *huldi* o. s. frv.
2) Seinna kemr *t* í stað *ð*, og svo er ávalt nú: *vakti* o. s. frv.
3) Nú **-um, -uð, -u:** *dœmdum*, *bygðum*, *temdum*, *hyldum*, *vektum*, *kölluðum* o. s. frv.
4) Nú *taminn*, *hulinn*.
5) Nú *vakað*.

93\. gr. Í nokkrum sögnum myndast **nútíð** eins og **þátíð** eptir **sterku** beygingunni, og þó beygist **þátíð** þeirra eptir hinni **veiku**. **Boðháttr** er sjaldan hafðr af þessum sögnum, og í sumum vantar hann alveg; í fáeinum myndast **þátíð** í **nafnhætti**. Þessar sagnir eru: a) *eiga*, *mega*, *[knega]*, *knáttu;* b) *kunna*, *unna*, *þurfa*, *muna*, *munu*, *skulu;* c) *vita*[1]; d) að nokkru leyti *vilja*.

| a) | | eiga | | | mega | | knáttu | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | **Nútíð:** | | | | | | |
| | | framsh. | viðth. | boðh. | framsh. | viðth. | framsh. | viðth. |
| Eint. | 1. | á | eiga[3] | | má | mega[3] | kná | knega |
| | 2. | átt | eigir | eig | mátt | megir | knátt | knegir |
| | 3. | á | eigi | | má | megi | kná | knegi |
| Flt. | 1. | eigum | eigim[3] | eigum | megum | megim[3] | knegum | knegim |
| | 2. | eiguð[2] | eigið | eigið | meguð[2] | megið | kneguð | knegið |
| | 3. | eigu[2] | eigi | | megu[2] | megi | knegu | knegi |
| | | **nafnháttr:** | | | | | | |
| | | eiga | | | mega | | — | |
| | | **hluttaksorð:** | | | | | | |
| | | eigandi | | | megandi | | — | |
| | | **Þátíð:** | | | | | | |
| Eint. | 1. | átta[4] | ætta[4] | | mátta[4] | mætta[4] | knátta | knætta |
| | | o. s. frv. | | | | | | |
| | | **nafnháttr:** | | | | | | |
| | | — | | | (máttu) | | knáttu | |
| | | **hluttaksorð:** | | | | | | |
| | | áttr | | | mátt | | — | |

1) Flestar þessar sagnir fá síðar í 2. og 3. pers. flt. í nút. í framsh. í stað endinganna *-uð*, *-u* endingarnar *-ið*, *-a*, sem snemma má finna í sögnunum *unna* og *muna*. (Þar á móti af *munu*, *skulu* að eins *munuð*, *munu; skuluð*, *skulu)*.

2) Nú: *eigið*, *eiga; megið*, *mega*.

3) Nú: *eigi*, *megi; eigum*, *megum*.

4) Nú: *átti*, *ætti; mátti*, *mætti* o. s. frv.

b) kunna unna þurfa muna munu skulu

## Nútíð.

### framsöguháttr:

| | | kunna | unna | þurfa | muna | munu | skulu |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | 1. | kann | ann[1] | þarf | man | mun (man) | skal |
| | 2. | kannt | annt | þarft | mant[2] | munt (mant) | skalt |
| | 3. | kann | ann | þarf | man | mun (man) | skal |
| Flt. | 1. | kunnum | unnum | þurfum | munum | munum | skulum |
| | 2. | kunnuð[3] | [unnuð] unnið | þurfuð[3] | [munuð] munið | munuð | skuluð |
| | 3. | kunnu[3] | [unnu] unna | þurfu[3] | [munu] muna | munu | skulu |

### viðtengingarháttr:

| | | kunna | unna | þurfa | muna | munu | skulu |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | 1. | kunna[4] | unna[4] | þurfa[4] | muna[4] | myna[4] (muna) | skyla[4] (skula) |
| | | o. s. frv. | | | | | |

### boðháttr:

kunn unn — mun — —

### nafnháttr:

kunna unna þurfa muna munu skulu

### hluttaksorð:

kunnandi unnandi þurfandi munandi (munandi) skulandi

## Þátíð:

### framsöguháttr:

| | | kunna | unna | þurfa | muna | munu | skulu |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. | 1. | kunna[5] | unna[5] | þurfta[5] | munða (-da)[5] | munda[5] (mynda) | skylda[5] |
| | | o. s. frv. | | | | | |

---

1) Nú einnig: *unni*, þát. *unti* (þó örsjaldan).
2) Nú: *manst.*
3) Nú: *kunnið, kunna; þurfið, þurfa.*
4) Nú: *kunni, unni, þurfi, muni, muni, skuli* o. s. frv.
5) Nú: *kunni, unni, þurfti, mundi, mundi, skyldi.*

viðtengingarháttr:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. 1. | kynna[1] | ynna[1] | þyrfta[1] | mynða(-da)[1] | mynda[1] (munda) | skylda[1] |
| | o. s. frv. | | | | | |

nafnháttr:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| (kunnu) | — | — | — | mundu | skyldu |

hluttaksorð:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| kunnat[2] | unnat[2] / unnt[2] | þurft | munat[2] | — | — |

c) vita — d) vilja

Nútíð:

| | framsh. | viðth. | boðh. | nafnh. | framsh. | viðth. | nafnh. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Eint. 1. | veit | vita[4] | | vita | vil | vilja[4] | vilja |
| 2. | veizt | vitir | vit | | vill, vilt | vilir | |
| 3. | veit | viti | | hlutto. | vill, | vili | hlutto. |
| Flt. 1. | vitum | vitim[4] | vitum | vitandi | viljum | vilim[4] | viljandi |
| 2. | vituð[3] | vitið | vitið | | vilið | vilið | |
| 3. | vitu[3] | viti | | | vilja | vili | |

Þátíð:

| | framsh. | viðth. | hlutto. | framsh. | viðth. | nafnh. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | | vildu |
| Eint. 1. | vissa[5] | vissa[5] | vitat[5] | vilda[5] | vilda[5] | hlutto. |
| | o. s. frv. | | | o. s. frv. | | viljat[5] |

94. gr. a) Fáeinar sagnir fá veika þátíð með endingunni **-ra**, en beygjast að öðru leyti eptir sterku beygingunni:

---

1) Nú: *kynni, ynni, þyrfti, myndi, mundi* og *myndi, skyldi.*

2) Nú: *kunnað, unnað, unnt, munað.*

3) Nú: *vitið, vita.*

4) Nú: *viti, vilji,* flt. *vitum, viljum.* — Nú helzt **j** í *vilja* á undan öllum þeim endingum, sem byrja með hljóðstaf: *viljið* o. s. frv.

5) Nú: *vissi, vissi; vildi, vildi.*

6) Nú: *vitað, viljað.*

| nafnh. | nút. | | þát. | | hlutto. fort. |
|---|---|---|---|---|---|
| | eint. | flt. | eint. | flt. | |
| gnúa | gný | gnúm[1] | gnøra[2] | gnørum | gnúinn |
| | | | gnørir | gnøruð | |
| | | | gnøri | gnøru | |
| snúa | sný | snúm[1] | snøra[2] | snørum | snúinn |
| gróa | grœ | gróm[1] | grøra[2] | grørum | gróinn |
| róa | rœ | róm[1] | røra[2] | rørum | róinn |
| sá[3] | sæ | sám | søra | sørum | sáinn |

Í þátíð er einnig ritað *e* í stað *ø: snøra* eða *snera* o. s. frv. — Enn fremr hefir *slá* í þátíð *sløra, slera* jafnframt *sló* (78. gr.); *frjósa, kjósa* í þátíð *frøra, frera, køra* jafnframt, *fraus, kaus* (80. gr.).

b) Eindœma er sögnin *valda;* hún beygist þannig:

| | Nútíð: | | Þátíð: | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | framsh. | viðth. | framsh. | viðth. | hlutto. |
| Eint. | 1. veld | valda[4] | olla (eða olda)[4] | ylla (eða ylda)[4] | valdit[4] |
| 2. | 3. veldr | boðh. | | | |
| Flt. | 1. völdum | vald | o. s. frv. | o. s. frv. | |

95. gr. **Sig-mynd.**

Sigmyndin (eða miðmyndin) myndast af gjörmyndinni með því að bœta við hana hinu aftrbeygilega fornafni, þannig að **-sk** (stytt úr **sik**, 60. gr.), seinna **-st** er bœtt við nafnh. og hlutto. og enn fremr við 2. og 3. pers. í eint. og flt. Á undan þessu **-sk** (**-st**) fellr endingar-**r** sagnarinnar niðr, og tannstafirnir **t** og **ð**

1) Nú: *núum, snúum, gróum, róum.* — Forskeytið *g* í *gnúa* fellr nú niðr: *núa, ný* o. s. frv.

2) Nú: *néri (nøri), snéri (snøri), gréri (grøri), réri (røri)* o. s. frv.

3) Nú: *sá, sái, sáum, sáði, sáðum, sáðr* og *sáinn.*

4) Nú: *valdi, olli, ylli* eða *olli, valdið.* — Annars er nú stundum mynduð sérstök sögn af þátíðarmyndinni *olli,* sem beygist svo: nafnh. *olla,* nút. *olli,* þát. *olli,* hlutto. *ollað.*

renna saman við hið eptirfarandi s og breyta því í z, t. d nafnh. *þykkja-sk*, seinna *þykkja-st;* nút. 2. og 3. pers. eint. í framsh. *þykkisk* eða *þykkist* (fyrir **þykkir-sk);* 2. og 3. pers. flt. *þykkizk* eða *þykkizt* (fyrir **þykkið-sk), þykkja-sk* eða *þykkja-st.* — Fyrsta pers. flt. myndast sömuleiðis með því að bæta -sk (vanal. stytt í -k), seinna -st, við gjörmyndina, og mynd 1. pers. flt. er einnig brúkuð sem 1. pers. eint.; þó hefir eint. því nær ávalt endinguna -k (ekki -sk) og vanalega -umk (ekki -imk) í viðtengh., t. d. nút. í framsh. í eint. og flt.: *þykkjumsk* eða vanalega *þykkjumk* (seinna *þykkjumst);* í viðtengh. í eint. *þykkjum(s)k,* sjaldan *þykkim(s)k* (seinna *þykkjumst,* sj. *þykkimst*), flt. *þykkim(s)k* (seinna *þykkimst).*

Athgr. Nú myndast sig-mynd sagna ávalt með því móti, að -st er bætt við gjörmyndina, og gilda hinar sömu reglur og í fornmálinu, að því er snertir *r* og tannstafina *t* og *ð;* þó ber þess að gæta, að hvorki rennr *ð* saman við eptirfarandi *s*, né fellr *r* burtu, þegar þeir stafir heyra stofni sagnanna til (*ræðst, réðst; berst, barst; ferst, fórst*). — Í daglegu tali er nú opt höfð endingin -ustum í stað -umst í 1. pers. flt. í nút. og þát. (*komustum; förustum, fórustum; berjustum, börðustum; elskustum, elskuðustum* í stað *komumst, kómumst; förumst, fórumst* o. s. frv.).

## 96. gr. a) **Samsettar myndir.**

Þær tíðir sagnanna, sem vantar, og öll þolmyndin eru samsettar og myndast með hjálparsögnunum, sem hér segir:

Fortíð og þáfortíð myndast af hlutto. fort. og nútíð og þátíð af *hafa* (í nokkrum sögnum af *vera*). Í hinum elztu ritum lagar hlutto. af áhrifssögnum sig í þessu sambandi við *hafa* vanalega eptir nafnorðinu í kyni, tölu og falli (*ek hefi þýddan draum þinn; fjandinn hafði hann blindaðan);* en seinna er hlutto. vanalega haft í hvk. í eint. (*ek hefi þýtt draum þinn; fjandinn hafði blindat hann).* — Framtíð og skildagatíð myndast af nafnhætti nútíðar, forframtíð og þáskildagatíð af nafnhætti fortíðar og nútíð og þátíð af *munu:*.

fortíð: ek hefi kallat
þáfortíð: ek hafða kallat
framtíð: ek mun kalla
skildagatíð: ek munda kalla
forframtíð: ek mun hafa kallat
þáskildagatíð: ek munda hafa kallat

Athgr. Í forframtíð og þáskildagatíð er hjálparsögninni *hafa* stundum slept, þar sem hún ætti að standa. Þetta hendir og mjög opt sögnina *vera*.

Hinar samsettu tíðir í sig-mynd myndast á sama hátt:

fortíð: ek hefi kallazk
þáfortíð: ek hafða kallazk
framtíð: ek mun kallask
skildagatíð: ek munda kallask

Athgr. Nú er reglan fyrir samsetning tíða hin sama og í fornmálinu, en sem eðlilegt er koma hinar nýju endingar hinna ósamsettu orða í stað hinna fornu (*ég hef kallað*, *hafði kallað*; *ég hef kallazt*, *hafði kallazt*).

96. gr. b) **Þolmynd.**

Þolmyndin myndast með hjálparsögninni *vera* og hlutto. fortíðar. Í nútíð, framtíð og skildagatíð (sjaldan endranær) má brúka *verða* í sömu merkingu sem *vera*. (Eigi allsjaldan er miðmyndin brúkuð í sömu þýðingu og þolmynd.)

nútíð: ek em (verð) kallaðr
þátíð: ek var kallaðr
fortíð: ek hefi verit kallaðr
þáfortíð: ek hafða verit kallaðr

Athgr. Þó eru myndir nút. og þát. opt brúkaðar líka í sömu þýðingu og fortíð og þáfortíð.

Framtíð: ek mun (vera eða verða) kallaðr
skildagatíð: ek munda (vera eða verða) kallaðr
forframtíð: ek mun hafa verit kallaðr
þáskildagatíð: ek munda hafa verit kallaðr.

Athgr. 1. Vanalega eru þó myndir framtíðar og skildagatíðar einnig brúkaðar í stað forframtíðar og þáskildagatíðar. — Hjálparsögninni *vera* (*verða*) er optast nær slept í framtíð og skildagatíð.

Athgr. 2. Þolmynd er nú mynduð með sama hætti og í fornmálinu, og verðr því myndin hin sama, þegar hinar nýju ósamsettu myndir koma í stað hinnar fornu (*ég er kallaðr*, *var kallaðr*, *hef verið kallaðr* o. s. frv.). — Nú er og *verða* (ekki *vera*) optast brúkað í framtíð og skildagatíð.

---

## Atviksorð.

97. gr. Aviksorðin fá stigbreyting eins og lýsingarorðin með því að bœta við frumstigsmyndina annaðhvort **-r** og **-st** með *i*-hljóðvarpi eða **-ar** og **-ast**. Hvorugkyn lýsingarorða er opt haft að atviksorði, og er þá hvorugkynsmynd lýsingarorðsins einnig höfð í miðstigi og yfirstigi (*brátt*, *bráðara*, *bráðast*; *títt*, *tíðara*, *tíðast* o. s. frv.).

a) **-r** og **-st**:

| frumstig: | miðstig: | yfirstig: |
|---|---|---|
| lengi (um tíma) / langt hvk. (um stað) | lengr (um tíma) / lengra hvk. (um stað) | lengst |
| skamt hvk. | skemr (um tíma) / skemra hvk. (um stað) | skemst |
| fjarri | firr | first |
| nær, nærri | nær(r) | næst |
| görva, gørva, gerva (görla, gørla, gerla) | gørr, gerr | gørst, gerst |

b) **-ar** og **-ast** (í flestum atviksorðum):

| | | |
|---|---|---|
| opt | optar | optast |
| víða | víðara (hvk.) / víðar (seinna) | víðast |
| vandliga | vandligar | vandligast |

og þannig stigbreytast öll þau atviksorð, sem hafa afleiðsluendinguna *-liga* (*blíðliga*, *makliga* o. s. frv.).

| | | |
|---|---|---|
| aptr | aptar | aptast |

| | | |
|---|---|---|
| norðr | norðar | norðast<br>nyrzt (seinna) |
| suðr | sunnar | sunnast<br>syðst (seinna) |
| austr | austar | austast |
| vestr | vestar | vestast |
| út, úti | útar, utar | útast, utast<br>ýzt, yzt |

---

| | | |
|---|---|---|
| sjaldan | sjaldnar | sjaldnast |
| niðr, niðri, neðan | neðar | neðast, neðst (seinna) |
| upp, uppi, ofan | ofar | ofast (øfst, efst) |

**Athgr.** Í nokkrum orðum má mynda stigbreytingu með hvorumtveggja hætti.

| | | |
|---|---|---|
| fram | fremr, framar | fremst, framast |
| síð | síðr (= minnr)<br>síðar (= seinna) | sízt (= minnst)<br>síðast (= seinast) |
| inn, inni | innar | innst |

**Athgr.** Í miðstigi er opt ritað bæði *-arr* og *-ar* (*optarr* og *optar* o. s. frv.); sömuleiðis *nærr* og *nær* o. s. frv. — Í stað endingarinnar *-ast* í yfirstigi finnst eigi allsjaldan *-arst* með *r* frá miðstigi (*ofarst, síðarst* o. s. frv. = *ofast, síðast* o. s. frv.).

98. gr. Í nokkrum atviksorðum er miðstig og yfirstig myndað af öðrum stofni en frumstigið:

| | | |
|---|---|---|
| vel | betr | bezt |
| illa | verr | verst |
| lítt (hvk.) | minnr (miðr) | min(n)st |
| mjök | meir(r) | mest |
| gjarna | heldr | helzt |
| — | fyrr | fyrst |
| — | hindar (= síðar) | — |

**Athgr.** Miðstig hefir nú ávalt einfalt *r*. — *fjarri* hefir nú myndina *fjærri* — *fjær* — *fjærst*. — Í *sjaldan* er nú opt skotið *k* inn á milli *s* og *j* (*skjaldan*). — *mjök* og *gjarna* hafa nú myndirnar *mjög* og *gjarnan*.

---

# Málfræðisorð og skammstafanir.

**afbrigðilegr,** *anomalus.*
**andandi,** *spirans.*
**aptrbeygilegt fornafn,** *pronomen reflexivum.*
**aptrhljóð,** d. *efterlyd, udlyd,* þ. *auslaut.*
**athgr.** = athugagrein.
**atviksorð,** *adverbium.*
**atvo.** = atviksorð.
**áherzla,** *accentus.*
**áhrifsl.** = áhrifslaus.
**áhrifslaus,** *intransitivus.*
**áhrifssögn,** *verbum transitivum.*
**blístrstafr,** *sibilans.*
**boðh.** = boðháttr.
**boðháttr,** *imperativus.*
**d.** = danska.
**deilitala,** *numerale distributivum.*
**dumbstafr,** *muta.*
**e.** = enska.
**ef.** = eignarfall.
**eiginnafn,** *nomen proprium.*
**eignarfall,** *genetivus.*
**eignarfornafn,** *pronomen possessivum.*
**einkvæðr,** *monosyllabus.*
**eint.** = eintala.
**eintala,** *singularis.*
**f.** = fyrir.
**fleirkvæðr,** *polysyllabus,*
**fleirtala,** *pluralis.*
**flt.** = fleirtala.
**forframtíð,** *futurum exactum.*
**forn.** = fornafn.
**fornafn,** *pronomen.*
**fornd.** = forndanska.
**fornm.** = fornmál.
**fornsœ.** = fornsœnska.
**fors.** = forsetning.
**forsetning,** *præpositio.*
**forskeyti,** *præfixum.*
**fort.** = fortíð.
**fortíð,** *perfectum.*
**framhljóð,** d. *forlyd,* þ. *anlaut.*
**framsh.** = framsöguháttr.
**framsöguháttr,** *indicativus.*
**framt.** = framtíð.
**framtíð,** *futurum.*
**frb.** = framborið.
**frumstig,** *positivus.*
**frumtala,** *numerale cardinale.*
**gjörmynd,** *activum.*
**got.** = gotneska.
**gómstafr,** *palatalis.*
**gr.** (eptir tölustaf) = grein.
**gr.** = gríska.
**greinir,** *articulus.*
**hálfhljóðr,** *semivocalis.*
**hljóðorpinn,** d. *omlydt,* þ. *umgelautet.*
**hljóðskipti,** d. *aflyd,* þ. *ablaut.*
**hljóðstafr,** *vocalis.*
**hljóðv.** = hljóðvarp.
**hljóðvarp,** d. *omlyd,* þ. *umlaut.*
**hljóðvarpslaus,** d. *uomlydt,* þ. *unumgelautet.*
**hljóðverpa,** d. *omlyde,* þ. *umlauten.*
**hluttaksorð,** *participium.*
**hlutto.** = hluttaksorð.
**hvk.** = hvorugkyn.
**hvorugk.** = hvorugkendr.
**hvorugkendr,** *neutrius generis.*
**hvorugkyn,** *neutrum.*
**karlkendr,** *masculini generis.*
**karlkyn,** *masculinum.*
**kk.** = karlkyn.
**klofning,** d. *brydning,* þ. *brechung.*
**kvennk.** = kvennkendr.
**kvennkendr,** *feminini generis.*
**kvennkyn,** *femininum.*
**kvk.** = kvennkyn.
**lat.** = latína.
**lengd,** *quantitas.*
**lýsingarorð,** *adjectivum.*

**margföldunartala,** *adjectivum multiplicativum.*
**meginhluti,** stofn, sem endar á hljóðstaf, styttr á þann hátt, að endastafrinn er tekinn aptan af.
**miðmynd** (= sigmynd), *reflexivum.*
**miðstig,** *comparativus.*
**mst.** = miðstig.
**nafnh.** = nafnháttr.
**nafnháttr,** *infinitivus.*
**nafnorð,** *substantivum.*
**nefhljóð,** *nasalis.*
**nefnifall,** *nominativus.*
**neitunarviðskeyti,** *suffixum negativum.*
**nf.** = nefnifall.
**nút.** = nútíð.
**nútíð,** *præsens.*
**óákveðið fornafn,** *pronomen indefinitum.*
**pers.** = persóna.
**persóna,** *persona.*
**persónul.** = persónulaus.
**persónulaus** (um sagnir), *impersonalis.*
**persónulegt fornafn,** *pronomen personale.*
**raðartala,** *numerale ordinale.*
**rót,** *radix,* d. *rod,* þ. *wurzel.*
**sagnorð** (= sögn), *verbum.*
**samhljóðandi,** *consonans.*
**samtenging,** *conjunctio.*
**sbr.** = samanber.
**sigmynd** (= miðmynd), *reflexivum.*
**sj.** = sjaldan.
**skildagatíð,** *futurum in præterito, conditionalis.*
**spurnarfornafn,** *pronomen interrogativum.*
**stofn,** *thema,* d. *stamme,* þ. *stamm.*
**sœ.** = sœnska.
**sögn** (= sagnorð), *verbum.*
**tannstafr,** *dentalis.*
**tillíking,** *assimilatio.*
**tilvísunarfornafn,** *pronomen relativum.*
**tvíhljóðr,** *diphthongus.*
**tvíkvæðr,** *disyllabus.*
**tvít.** = tvítala.
**tvítala,** *dualis.*
**töluatviksorð,** *adverbium numerale.*
**töluorð,** *numerale.*
**v. beyg.** = veik beyging.
**vara-andandi,** *labialis spirans.*
**varastafr,** *labialis.*
**viðskeyti,** *suffixum.*
**viðtengh.,viðth.** = viðtengingarháttr.
**viðtengingarháttr,** *conjunctivus.*
**vísiforn.** = vísifornafn.
**vísifornafn,** *pronomen demonstrativum.*
**yfirstig,** *superlativus.*
**yst.** = yfirstig.
**þ.** = þýzka.
**þáfortíð,** *plusquamperfectum.*
**þágufall,** *dativus.*
**þáskildagatíð,** *futurum exactum in præterito* (*conditionalis exact.*).
**þát.** = þátíð.
**þátíð,** *præteritum (imperfectum).*
**þf.** = þolfall.
**þgf.** = þágufall.
**þolfall,** *accusativus.*
**þolmynd,** *passivum.*

Þegar stjarna (*) stendr fyrir framan orðmyndir, táknar hún, að þær myndir finnist ekki, en sé þó hinar upprunalegu, sem þær myndir, er tíðkast, eru komnar af.